# Liódmæli

útgéfin

af þvi íslenzka Bókmentafélagi.

---

Fyrsta Deild.

---

## Qvædi Síra Stephans Olafssonar.



---

Kaupmannahøfn, 1823.
Prentud hiá Hartv. Frid. Popp.

# Ljódmæli

eignud

Síra Stephání Olafssyni,
Fyrrum prófasti í Múla þíngi og sóknarpresti
ad Vallanesi.



Utgéfin ad tilhlutan hins íslenzka
Bókmentafélags.

Kaupmannahöfn, 1823.
Prentud hiá Hartv. Frid. Popp.

# F o r m á l i.

Hid íslenzka bókmenta-félag hefir ályktad ad auglýsa á prenti safn merkilegra íslenzkra liódmæla, hellst veraldlegs innihalds, og þau er ej ádur hafa prentud verid. Byrjunin skédr hér med qvædum Sira Stephans Olafssonar í Vallanesi, sem án efa má reiknaz medal þiódskálda vorra. Félagid hefir trúad mér, sem núveranda forseta þess deildar hér í stadnum, fyrir útgáfu þeirra, og hlýt eg því í þessu tilliti ad giera stuttan reikníngskap minnar rádsmennsku. Þau flestu liódmæli er qver þettad hefur inni

ad hallda, eru tekin úr safni nockru er eg, fyri mørgum árum, fèck til láns hiá Prófasti Síra Þorvalldi Bødvarssyni, hvørs lærdómur og skáldlega andagipt eru alkunn á landi voru, samanteknu og vandlega ritudu med hans egin hendi. Tímin leyfdi mér ei siálfum ad skrifa þad upp, enn eg lét þad gjøra á minn kostnad. Þessi nýa uppskrift var nú af mér gégnumséd til prentunar, og olli þad mér mikils ómaks, ad skrifarinn ei hafdi þeckt edur notad þær almennustu réttritunar reglur, svo ad eg nú, í því tilliti, hlaut ad rétta nær því annad hvørt ord, þótt siálft ordalagid vídast væri óafbagad. Annars voru nú flest þessara qvæda samanborin af mér og Stud. Theol. Hra Mauritz Matthíassyni, vid adrar afskriftir, sem fundust híngad og þángad innfærdar í mikid qvæda safn, í 10

bindinum, er sál. Kaupmaðr Jón Stephánsson í Berufyrdi hafdi siálfr ritad edr rita látid, enn nú er ordid eign vors Bókmentafélags. Fáein liódmælanna hefi eg siálfr héradauki lesid saman vid drøslur nockrar í sál. Prófessors Arna Magnússonar handarritasafni, hvert þó er ørfátækt af íslendskum qvædum sem yngri eru enn hin seinustu trúarbragdaskipti; væri því miøg óskandi ad félagi voru heppnudust fleiri gódar íslendskar qvædabækur, ad giøf edr sannsýnu verdlagi, og ad útval þeirra med tídinni prentad yrdi. Af vísum þeim, sem eignadar eru Síra Stepháni, hefi eg hér undan fellt fáeinar sem virdaz mér of afbagadar til prentunar ad sinni, og nockrar, er eg varla ætla ad hann ort hafi, og ei eru almenníngi bodlegar á prenti, vegna klámfengins edur ískyggilegs innihalds.

Einstakar adrar virdaz mér of fáfengilegar til nú ad leidaz almenníngi fyri sjónir. Þar-ámóti er møgulegt ad sumt sé hér prentad, er skáldinu ádr ránglega hefir eignad verid, og ef svo reyniz óska eg ad mér edr félaginu verdi þarum vísbendíng géfin. Flest þau ordatil-tæki, sem fyri prentunina hafa leidrétt verid, hafa ordsakaz af samanburdinum *); þó má undantaka fáeinar augsjáanlegar skrifvillur,

*) Þar ad lútandi hugasemdir standa nedst á bladsidunum med þessum merkium: B. þýdir adalritid, sem samid var af Prófasti Síra Þorvalldi Bødvarssyni; S. safn sál. Kaupmanns Jóns Stephánssonar; M. α og β qvædablød á Turni (þó ei þau sem áteiknud eru: "Vísnaqver Stephâns Olafssonar á Kirkiubæ 1636, 20 November)." S. o. A. Saman og Alvara 2ad Hefti (siá bls. 74, 91 o. f.)

er eg leidrétt hefi án frekari skíríngargreina. Í stad latínskra yfirskrifta hefi eg sumstadar sett adrar íslenzkar. Af sérhverri ørk eru þriú próf frá prentsmidiunni leidrétt; tvø af mér siálfum, enn eitt af féhirdi vorrar deildar Studios. Theolog. Hra. Hannesi Stephensen. Þannig byrtaz þá loksins veraldleg qvædi þessa vors þiódskálds, er nefndr hefr verid Íslands Horatius, og er svo nockur bót rádinn á þeirri umqvørtun, sem innan- og utan-lands ádr hefir látid sig heyra, ad slík liódmæli hans hafi verid flestum dulinn og líkleg til ad lída algjørlega undir lok. Nú æskium vær þess ad almenníngr á Íslandi virdi vel vidleitni vora og studli til þess, med kaupi qversins, ad siódr félagsins verdi skadlaus af þeim kostnadi er gengid hefur til þess prentunar og innfestíngar. Verdi svo, von-

um vèr ad önnur deild íslendskra liódmæla fylgi þessari prentud ad vori, og er handarritid þegar samantekid med vali og tilsión Hrra. Assessors Biarna Thorarensens, Prófasts Arna Helgasonar og Adjuncti Dr. Hallgríms Schévings.

Kaupmannahöfn, þann 6ta Martii 1823.

Finnur Magnússon.

## Stutt ágrip af Æfisøgu Sira Stephâns Olafssonar.

Samid af Finni Magnússyni.

Þegar fyri tuttugu árum fèll mèr í hug sû tilraun, ad láta liódmæli þessa vors fræga skálds á prent útgânga, og samdi í því til-liti hans æfisøgu. Af því fyritæki vard þá eckert, enn verst fellr mèr nû ad tèdr ritlingr, er giørdr var á Islandi, ad nockru leiti eptir skiølum, er eg nú ei til næ, edr jafnvel man hvør vóru, hefir sídan glataz, svo ad eg nû einûngis gèt bodid lesendum qvæda þessara eitt lítid og ófullkomid ágrip.

Fadir skáldsins var Sira Olafur Einarsson, prestr ad Kirkiubæ í Túngu og prófastr í Múla þíngi (sonr hins nafn-

fræga skálds Síra Einars Sigurdssonar, Officialis og Prests ad Heydølum). Módir hans var Kristín Stephánsdóttir, sonardóttir Biskups Gísla Jónssonar ad Skálhollti. Hvort ár hann fæddiz í heim þenna, hefi eg nú ej gétad uppgøtvad, enn úngr mun hann hafa endad sínar lærdómsydkanir í Íslandi, og þá ordid þénari edr skrifari Biskups Mag. Brynjúlfs Sveinssonar *). Um haustid 1642,

*) Sá hálærdi høfundur Íslands Kirkiusøgu, sál. Biskup og Dr. Theolog. Finnr Jónsson segir þar ad sønnu (III. 560) ad Síra Stephán hafi verid í þeirri stétt eptir útkomu hans frá Kaupmannahøfn, enn þad gétr ei stadiz eptir því sem liósslega má siá af bréfasafni Olafs Worms (Olai Wormii et ad eum doctorum virorum epistolæ, Havn. 1751) hvar þó því midr ej er annad ad finna frá skáldsins hendi, enn lítid ágrip af einu bréfi hans, dagsettu

mun hann hafa siglt og komid til Kaupmannahafnar*). Brádum fêck hann háskólans borgara rétt og vard miøg handgenginn þeim nafnfræga Prófessóri Olafi Worm, sem miøg ydkadi norræn fornfrædi og var mørgum lærdum Islendíngum hiálpsamr og vinveittr. Fyrir hann útlagdi Stephán vor Voluspá á Latínu árid 1644, og mikinn hluta Snorra-Eddu 1645, er hvorutveggia sídan var á prent útgéfid af Pétri Resenius 1665. Um vorid 1648 veik hann heim aptr til Islands, og fann þá fyrst Biskup Brynjólf,

Kirkiubæ þann 15da September 1648, (II. 1072).

*) Siá Epist. Worm. pag. 238. Hann skrifar i October 1642: Huc appulit juvenis, M. Brynulphi amanuensis. I vísunum til Iørgen Kemm qvedst hann einnig sialfr (bls 188) hafa verid fimm ár í Danmørku til mentaidkunar.

enn ferdadiz sídan frá Skálholti til fødur síns í Kirkiubæ *), hvar hann ej dvaldi lengur enn til næsta árs 1649 þá Vallaness prestakall var honum veitt, og héldt hann því til dauda-dags. Í 16 ár var hann Prófastr í Múlaþingi. Hann giptiz Gudrúnu Þorvallds dóttur er komin var frá Jóni biskupi Arasyni og syni hans Síra Byrni. Børn þeirra munu hafa verid átta (siá bls. 81) **). Vída má siá

*) Siá sømu bók bls. 1037, 1045, 1072.

**) Sis nefnaz einasta í ættartølum þeim, er fylgia Giessings Jubellærere. (I. 47, II. 89). a) Prófastur Síra Olafur Stephánsson ad Vallanesi. b) Síra Þorvalldur, Prestr ad Eidum og sídan ad Hofi í Vopnafyrdi, einnig gott skáld. c) Þóra Stephánsdóttir, gipt Síra Páli Høgnasyni ad Valþiófsstad. d) Anna, gipt Prófasti Síra Olafi Gudmundssyni ad Hrafnagili. e) Rannveig, gipt

af qvædum hans ad hann var þeim náqvæmr og elskurikr fadir, og er einnig frá þeim komid mikid og merkilegt afsprengi á voru fósturlandi.

Ej veit eg réttara enn ad hann þiónad hafi kallinu til andláts síns er skédi árid 1688 *).

---

Síra Eigli Gudmundssyni ad Kálfafelli. f) Gudrún, gipt Síra Biarna Einarssyni ad Ási í Fellum. g) Haldóra, dó ógipt. Þar er gleymd: h) Kristín sem mun hafa dáid ung. Medal afqvæmis Annu má hellst telia sáluga Stiptamtmann Olaf Stephansson og hans Börn, sem tekid hafa Stephánsnafnid til ættarnafns, er þannig lengi mun endurnya skáldsins minníngu. Frá Þóru er kominn Syslumadr Hra. Sigurdur Petursson hvörn Island mun reikna mega medal þiódskálda sinna.

*) Af vísum hans er ad ráda ad Þóra dóttir hans hafi verid fyri búinu á hans elli-

Tvenn edur fleiri liódmæli Skáldsins gèfa grun um ad hann, ádur hann sigldi hèr frá landi til Kaupmannahafnar, hafi ætlad sèr frída og góda stúlku á Íslandi, hvør rádahagur honum þó brugdiz hafi, enn hann þad híngad frètt og þá orkt vísurnar (bls. 201): Biort mey og hrein o. s. frv. Þær eignaz honum med fullri vissu af vorum margfróda landa Jóni Olafssyni frá Grunnavík, í skrifum hans um íslendskt mál; — mun því og mega gánga úr skugga um ad Síra Stephán einnig orkt hafi þad annad qvædi sama innihalds (bls. 88). Eg veit o. s. frv.

Annars sýniz svo, af upphafi eins hans nafnkéndasta Sálms — sem flest hafi

---

døgum; líklegt er ad hann þá háfi Kapellán haldid, máskie son sinn Síra Olaf edur tengdason sinn Síra Pál, enn þad efni er mèr þó nú öldúngis bliòst.

gengid honum ad óſkum, edr ad minnſta koſti fallid honum liúft og léttbært, uns hann var kominn af fertugs aldri. Þau þriú fyrſtu vers af tédum Sálmi, hvorn eg nú ej gét til leſtrar fengid, hlióda þannig, ef mig rétt minnir:

Margt er manna bølid,
Misjafnt druckid ølid
Lifs um tæpa tíd;
J Dag byljir bída,
Biart er vedrid frída,
A morgun hregg og hríd;
Villtur er ſá
Sem væntir á
Stadfaſt lengi
Gledinnar gengi;
Giørvøll hverſur blída.

Eg var úngur madur
Alheill, ſæll og gladur,

Lék vid holdsins hátt;
Luckan lét í hæfi
Lángt fram eptir æfi,
Féll til rauna fátt.
Minn var þá
Pánki sá:
Pann veg enda
Láta og lenda
Lundblíd mundi giæfa.

Enn þá tvisvar tvenna
Taldiz báinn ad renna
Tugana æfi af,
Hófst upp heilsu ránid,
Hvarf hid forna lánid
Allt sem audnan gaf,
Eins og rik,
Augnablik,
Okyrrt hiól,
Vindbláfin bóla,
Báran, ar edr máni.

Héraf er einnig ad ráda sem lunderni hans miög hafi breitst um sama skeid, og flestar hans gamanvísur séu orktar á yngra aldri. Sú saga hefir á Íslandi gengid, er eg ei man hvört eg hefi heyrt edur lesid, ad Hornfyrdíngar miög hafi reidst skopqvædum þeim (bls. 101 og 156) er hann um þá gjördi, og hefni sín med megnum galdri, sem leidt hefdi yfir skáldid lángvinnan qvilla af fótaverk og gédveiki. Þó er sagt ad hann hafi þar af sídar bata fengid; — og eru þau líkindi þartil, ad hann í elli sinni tókst á hendur útleggíngu Kíngos Morgun- og Qvöld-Sálma, ad bón biskupsins í Skálholti, Mag. Þórdar Þorlákssonar; hún var prentud 1686, og sídan nockrum fleirum sinnum; — Líka hefur hann eptir sig látid fleiri góda frumqvedna og útlagda sálma, af hvörium nockrir prentadir eru í adskilianlegum íslenzkum Sálmabókum.

Að Síra Stephán Olafsson hafi verið einn hinn mesti gáfumaður sem land vort borið hefir, ætla eg ei í efa færandi. Ljóðmæli hans hrósa sér siálf, og bera þarum öruggt vitni. Einnig munu þau votta gèðslag hans og lunderni, sem mèr eru að öðru leiti ókunn, enn hvör eg þó vona að sóma mættu góðum og ráðvöndum manni. Hafi hann á yngri árum ei verið öldúngis frí fyrir heldur mikilli késkni og skopi í qveðskap sínum, mun hann án efa síðar hafa sèð að sèr, og bætt þann sinn brest með kristilegu og dygðugu líferni.

Þettað ófullkomna ágrip af æfisögu þióðskáldsins gèt eg ei að svo stöddu betur af hendi leyst. Líklegt er að fróðir Austfyrðíngar gèti gèfið þarum miklu greinilegari skírslu, hvöria eg eður stýrendur vors Bókmentafèlags á sínum tíma mundum þacklátlega meðtaka, ef boðin væri.

---

## Avisun Innihaldsins.

# Ríma
af
# Sigurdi Eyólfssyni
er kalladur var Raunkufótr.

1 Sigurdur heitir sæmdarmadur sá
kann veida;
A fiskaleitir harla hradur og hylinn breida.
2 Raunkufætiveittist værd Wallanesi
Driúgr nætur dúrinn tærdi dags umviesi.
3 Morgun-blis er bar ad fialli birtu slódir,
Strax frá eg risi og klæddist karlin kunn-
ur slódi.
4 Snærid þýngt af blýi bar og brodd
hendi,
Agnid kríngt á aungli var svo odd eyí
kendi.

5 Sér jafnalldra seck tók súinn svo á vastri
Og þrefalldra bóta búinn burt úr klastri.
6 Alla stirdna af aungulhveckmum ársilúnga
Opt til firna í þaun sekk réd inn ad púnga.
7 Atrunadurinn á honum var um ærna veidi,
Hængia madurinn hann því bar a humra seidi.
8 Undir hvammi aungla gleypti állinn diúpur,
Fiskadamminn fyrst þá sleypti frosta hiúpur.
9 Vendi ferdum veidi-brellu vanur þángad,
Stálid gérdi hliebakshellu hart ad stánga.
10 Lidid ugga losna tók úr legu gæfri,
Mæni-glugga er mørgum jók á módu ræfri.
11 Isabriótur kaldann knúdi krók á færi,
Raunkusótur digurt dúdi dorgar snæri.
12 Siáldur hvatti um báruberk vid bygdir ála,
Aungull datt í aura mørk med agnid hála.
13 Qvikar rod enn blaktir beita í bárustilli,
Þetta bodar bleikiu feita ad bidia um fylli.
14 Hrogna feldu fiskar stygd i fyrstu qveitu,
Lífid seldu í laxa bygd fyrir litla beitu.
15 Aurridiendur ymsir hiengu á egndu færi,
Viela kéndu og vondslegt feingu varafæri.

16 Hnútur mærdar birting beitu bar ad munni
Tolldi flærdar teinninn seitr i tálnkna-
runni.
17 Upp nam kippa vænni veidi úr vakar hólki
Dorgar vippa deyddi reydi a dælu tólki
18 Hængir stikla, sund á svelli sækia hørdu;
Bleikjur sprikla, sporda skélli sprækar
giørdu.
19 Loksins saman sína veidi Sigurdur tíndi,
Þótti gaman, gylldlig reydinn greipar
klíndi.
20 Silúngshnacka ísinn á med afli keirdi,
Sídann stack i seckinn grá og samaunreirdi
21 Vildu ei beitu framar sala siskar hálir,
J sømu leitum sands vid hála sáust stri-
álir.
22 Vaka smidurinn vendi því frá vestra sandi,
Ilia skridurinn eslđi guþ ad eystra landi.
23 Eptir poka á ísnum lét enn eigi signdi,
Sunnann þoka seig í hret enn sídann
rigndi.
24 Enn nam finna fiska mid, og fór ad dúa
Dorgar tvinna rendi a rid og rakti úr
hnúa.
25 Arbhýrtingar einninn þar á agni kendu,
Millum fingra veidinn var, á vatni rendu.

26 Lockar geingdinn lista mann ad liggia á ísi;
Ekki sveingdinn orka kann, ad af honum
rísi.
27 Ættar hláka úti var, sem ísinn grennti;
Samt red bráka snirti-snar og snærid
spennti.
28 Jötuns vængia sveiflid svarta sendi úrir;
Konur hængia hræddust biartar hlies i
búri.
29 Eins og fiördur áinn gékk ad ofannverdu,
Veidiniördur selmtur fékk á flódi herdu.
30 Frosin reka straumar stridir strá og aura,
Jökul-fleka vatn sem vídir vatt í gaura.
31 Styggiaz vedur, vakir freida, vaxa undur,
Skabla ledurs briggiann breida brast í
sundur.
32 Stirdu jakar, stódu á hlid, því stíblann
olli,
Vellti klaka vatna skrid úr vimrar polli.
33 Brestir gullu af Grímsárkvás a) i gliú-
fra karmi,
Jakar ullu um unnar b) bás ad effsta barmi
34 Inniteppu ymiz fékk sú olgann stóra
Eda úr kreppu grádug gékk med grenj og
óra.

---

a) S. ós. b) ljós S.

35 Heyrdi þetta hinn er veiddi og þáti, nam
lita,
Uppí kletta eystri sneiddi af álnum hvíta.
36 Herrann bad ad hiálpa sér med hiartad
klöckva c)
Epter þad af unnar gleri upp nam stöckva.
37 Isa kóf og kólgudans hinn kýngia brádi
Í því skófum hæla hanns er haudri nádi.
38 Augum skaut og ilia stodum ítti um
granda,
Á laxabraut er frísti frodum flióts um
sanda.
39 Í midri á þad hreisdi harmi í hyggiu
pasti
Pokann sá med fiskafarmin flóds í kasti.
40 Undir létti brattur breki og brúsid vinda
Var hann því rétt sem frosta sleki frár
ad synda.
41 Ymist söck hann undir klaka á augnabliki
Ellegar hröck á efstu jaka, í öldu ryki.
42 Sigurdur meinti senn á land hann sigla
mundi,
Hlióp því beint um hraun og sand þar
hrönninn stundi.

---

c) hröckva S.

43 Svo var hradur hann á sléttu hæl ad
skióta
Ad strauma vadur raktist rétt sem renn-
slid fóta.
44 Vatnsfall eitt er vídfrægt miøg af vøxt og
stilli.
Djúpt og breidt enn liúft i løgu landa á
milli.
45 d) Lángt umsvif med vøkvaunn vyrdist vors
ad seilast,
Héradid klifur, fold sem fyrdi, fiøllinn
deilast.
46 Lagarfliót er lídum tamt um land ad
nefna,
Arnar briótast ecki skamt, og í þad stefna.
47 e) Grímsá fylli þúngri þángad þrádi
hrinda,
Géck þó vill um vída tánga vatna strinda.
48 Loks er snertu ecki átti ærna ad flióti
Hlaupid þvert, þá misti máttinn madurinn
skióti.
49 Fót i þúfu rak vid riódur runn-flækinga,
Féll á grúfu beitu biódur búinn ad springa.

---

d) þessa vísu vantar í S og er hún kannské afbøkud.
e) þessa vantar í B.

50 Framþiá þeisti síla seckurinn, svolgrid knúdi,
Hvarma kreisti hængia reckurinn harmalúdi.
51 Idann hræd vid ísa hridiu orpna grióti
Med liótri stærd svo lendti í midju Lagarslióti.
52 Hlaups vid rokinn f) héllt í vídann hyl med sqvaldri,
Tíndiz pokinn Sigga; sídann sást hann aldre.
53 Af vatna briáli, er engu eyrdi, upp hiá vøllum,
Dvergamál i hømrum heyrdi enn hvin i fiøllum.
54 **Sandfells** gnípa g) **Hátúns** hettur og hvirfill **Múla**
Leisti klípa h) er fleygdu fløttum foldar túla.
55 Jøtna sessi skrugaur skóku og skémtu Draugum,
**Raudur** og **Besi** *) rumskast tóku og rugga haugum.

---

f) **hellti í** S. **héllt um** B.
g) Hátún S. h) og S.
*) Tveir Haugbúar.

56 Ormurinn sá sem uppí Fljóti er endiláugur
Hart vid brá er brast í rót og bylgiu-
gángur.
57 Fastur a haus er hermt hann liggi og hala
sinum,
Syldann hnaus af gódri byggir grábaks-
dýnu.
58 Hálf-Þíngmanna-lángur-leid nam lyckiur
keira,
Ecki grannar uppúr breidum huis dreira.
59 Skatann liggur bardabreid i báru glaumi,
i) Snýr upp hriggur, eingu eyrir, út hiá
straumi.
60 Henni í triónu sekkinn setti súgur vatua
Hún hvesti sión og sér upp létti, seint mun
batna!
61 Sva sem ey var á ad lita k) ypt úr glýu,
Lángt nam teygia ur hylnum hvita ha-
lana níu.
62 Selurinn einn er undir Fossi innt ad
bólmi,
Hans augasteinn er biartur blossi enn
bak sem hólmi.
63 Lámum spennir leyndar krár um lægis-
grunna;

---

i) Eugar úpp hrigg S.  k) ypta B.

Framann úr enni hanns er hár sem hrísl-
ur runna.
64 Nú úr kólgu keyrdi hann haus og kampa
hristi,
Svo sem af ólgu yrdi laus, og áløg misti.
65 Fiskastód réd fram úr idu fossinn spíta,
Spordar stódu hans úr hlid er hrønn nam
slíta.
66 Apturá bak þeim idann kunn og áfram
sleypti
Selurinn rak í sundur munn og sekkinn
gleypti.
67 Nú er ad segia Sigurdi frá, hann sat á
hrauni;
Ecki þegia madurinn má vid megnar raunir.
68 Þegar af vørum hrydiu hret var hreitt á
faunir,
Mælsku þvøru losna lét og leika þauninn;
69 "Undur hafa hér ákøf geingid alla vega
Isar skrafad og strauma streingir stor-
heimsklega.
70 Heilla stódur horfinn er og hængia meingi
Verst því módur í brióst mér sem bý eg
ad leingi.
71 Eina veit eg ordsøk þá, er orka mætti
Ad soddann qveita kom í á ad kyngium
sætti.

72 Þessum fordum ár á ós vid afbragds veidi
Lá eg í skordum, lítt nam frjósa lag í heidi.
73 Helgir málmar heyrdi eg vektu hljóminn sterka,
Byrian sálma bodar þad gløggt og blessun klerka.
74 Silúngunum sinnti eg meir enn søgdum hljómi,
Af feigdarmunum festu þeir sér fal í gómi.
75 Málmurinn þá af megni sló og messu stillti,
Samt eg lá og silúng dró svo seckin fyllti.
76 Mig fýsti svo þeim feing ad sæta í fullri nennu,
Dagana tvo ad messu mæta misti' eg í rennu.
77 Sú mun vera søkinn vøld þad sé eg á eptir,
Vil eg þar bera skiótt fyrir skiøld, ad skadann hepti.
78 Heita væna vil eg á kyrkju í Vallanesi
Hvar eg bæna hafnad' yrkju og helgu lesi.
79 Henni ad færa fiska þriá ef fimtán veidi,
Fái eg mér kiærann seck ad siá og silúngs reydi."
80 Burtu sídann beint og hart til bygda vendi,

Haldinn qvída, enn dagurinn datt og
dymmu sendi.
81 Dæstann minnti limanna lúi ad leggiast
nidur,
Engu sinnti í einrúm sníinn ørva vidur.
82 Sócku meidi óliós augum aptur hneckti,
J brúna heidi blundur slang og bríóstid
spekti.
83 Af daglátum drauma mergd er dorm réd
finna,
Jrádgátu óhapps ferd nam alla ad spinna.
84 Seckurinn fyrir siónir skautst á sofandi
manni
Jnn um dyr og réd vid raust ad ræda
þannin:
85 "Þú lávardur! liggur hér sem létst mig
hrióta
Flóds af gardi fliótsi hver 1) og flagdid
lióta.
86 Oflint hétst til heilla þér á húsid dýra,
Og standa létst fyrir lausn á mér þa lofun
ríra.
87 Húsi mesu hæfir friálfri hendi byta,
Upp frá þessu augum siálfs mig ey mátt
líta.

---

1) Flagid? — Flagdid hlióta S.

88 Til horns mun þoka hiedannaf þín heppninn veida
Um unnar lok úr øldu kasi og inni reyda."
89 Sídann hvarf, enn Sigurdur aptur sviptist blundi,
Draums af starfi randa raptur ramliga stundi.
90 Missmíd héllt a høgunum þegar halurinn ordna,
Láuid selt enn væri ei vegur vid ad sporna.
91 Fyrir sig réd setia vitrun svo lióst gérda;
Med stórliga brióski bitru bióst til ferda.
92 Géck so heim til húss í m) Strandar hreysíd forna
Og réd sveima um veidi-ad vanda vøtn á morgna.
93 Ecki vildi fiskifángid falla í hagi,
Ad fyrra gildi og fornum gángi í fremdar lagi.
94 Svo var teppt fyrir tekju hanns þó tilraun hádi
Ad skildi hann eptir í aungla dans þa
æ n) fyrr nádi.
95 Gagnvads líka á ís og andu eyddist gipta
Vid óheill slíka allt til dauda átti ad skipta.

---

m) Stranda B. n) sá ey B.

96 Fingur kreppti og beygdi bakid bleikjum hádur,
En klén var eptir óframrakinn æfiþrádur.
97 Hef eg nú frétt hann fiørinu sleppti og o) fór ad lenda,
Adur enn rétt med røkum hreppti rímann enda.
98 Hans má minnast hængia fiøldi og hópur reyda;
Traudt mun finnast frægri høldur fara til veida.
99 Sillinn beida vætu vadur værdir sýni!
Hvíliz veidi mætur madur! mærdin dvíni!

---

## Veidi-Qvædi
## Ara Gíslasonar á Eckjufellsseli

Ari minn hiá Eckjufelli útvaldi sér Stad,
Hann vitiar vatnsins þá vorar ad.

1 Allteld fer hann til Fiskileita
Þá fært er saudum út ad beita

o) fiéck S.

Vita þad menn hann vel má heita
Veidimiørdur brellinn;
Þar hiá Eckjufelli —
Legur á ís vid Ara ad þreita
Eingum hrøckur þad
Hann vitiar vatnsins þá vorar ad.

2 Um aurrida vatnid vída
Vøk hefur marga giørt ad smída,
Eg held rád þeim yfir þad rída,
Þeir ecki á skeidin skélli
Þ. h. E. f.
Annars kunna ymsir skrída
Ofann í netid þad h. v. v. þ. v. ad.

3 Þær eru tuskn-vøkunum verri,
Vodalegar hiá sidu hverri,
Blackurinn þegar hann bíkur sperrir
boradur ísinn fellir, þ. h. E. f.
Ofan í þessar allar terrir
Ari dorgarvad, h. v. v. þ. v. a.

4 Veidigløpinn verda af slíku
Ef varúd bregdst hiá fólki ríku
Allar skiálfa unnar bríkur
Vid ohófs skeifna skélli, þ. h. E. f.
Af honum Ara silúng svíkur
Svella skrøllid þad. h. v. v. þ. v. a.

5 Þá ónádirnar einginn veitir
Øllum døgum legurnar þreitir,
Aurridan med birting beitir
Og bleikjum leifir elli þ. h. E. f.
Allt eru þetta fiskar feitir
Og forgódir í spad h. v. v. þ. v. a.

6 Ein nam hyndlan Ara ad fylgia
Ut á diúp þar løgd var bylgia,
Leitst þad krummum kátleg dylgia
Hún køsina vardi á svelli þ. h. E. f.
Sú vard grimm sem soltinn ylgia
Ef sá hún þá fliúga ad. h. v. v. þ.
v. a.

7 Eitt sinn hremmdi Hrafninn reydi
Hún rann eptir vøkur á skeidi
Fram ad vesli og ísa eydi
Ofan í frá ég hún félli þ. h. E. f.
Ari sá hún søck og deydi
Og sviplegt vard vid þad. h. v. v.
þ. v. a.

8 Þadan af hafdi hann fullt í fángi
Fridlaust vard af hrafnagángi,
Hriádi veidar hópurinn strángi,
Med hopp og nesia smelli þ. h. E. f.
En madurin lá med bisli og bángi
Og brøgd í tabli qvad h. v. v. þ. v. a.

9 Sídann lætur hann sekkinn hyrda
Silúngana af feiti stirda,
Og sterka öl fyrir opid girda
Ad ecki frammúr velli þ. h. E. f.
Þiódráð giörir hann þetta ad virda
Þadannaf vard ej ad. h. v. v. þ.
v. ad.
10 Ödru sinni ofbods kéndi
Þá aunguliun í vatnid sendi,
Ad fiskakóngurinn frammad rendi
og fyllti upp öldu helli þ. h. E. f.
Þá Ari til hanns augum vendi
Akast fyrir ser bad. h. v. v. þ. v. ad.
11 Svo var hann stór i áshud allri
Ad ecki sá fyrir spord á kalli,
Af hreistrinu stód máttar mialli
Meir enn fegursta pelli þ. h. E. f.
A aguid góndi hinn átu halli
Og ætladi gleipa þad. h. v. v. þ.
v. ad.
12 Þá dró Ari ad ser snæri
Því ecki vildi hann missa færi,
Svo géck hrædslaun halnum nærri
Ad hann spratt upp af svelli þ. h.
E. f.
Shnd frá eg honum enn veitt ei væri
veidinn; satt er þad. h. v. v. þ. v. ad.

13 Hefnir hann þess á hyski ødru
I hópa tali og mørgum vødum
Er ad honum þys úr ýmsum stødum
Eins og flódinn velli, þ. h. E. f.
Snarar hann því med snúníng hrødum
I sniðinn og kreppu svað. h. v. v. þ. v. ad.

14 Nidurburdurinn veldur veidi
Vakadist nær þar hyndlan deydi;
Miøg er stundum margt á seydi
Man eg ey øll tilfelli þ. h. E. f.
Þad lítst Ara gódur greydi
Eg gef honum sónarblad
Hann vitjar vatnsins þ. v. ad.

15 Skil eg mer af honum fiska fióra
Ferska alla og þar med stóra
Þó lítt hafi eg betur qvædid klorad
Enn krummar rita á svelli þ. h. E. f.
Þad vil eg af Ara á vakar-lióra
Vel se hátónad h. v. v. þ. v. ad.

16 Gíslason er garpurinn þessi,
Sem getid er um í bodnar vessi
Sá øllu rædur bid eg hann blessi
Svo bjargist allt til elli þ. h. E. f.
Og af fiskum færid hlessi
Þá ferdast veidum ad.
Hann vitiar vatnsins þá vorar ad.

## Feriubragur Odds Þorvardssonar[a]).

1 Bragurinn rís um bátinn einn
Er brøgnum þótti audnu-seinn;
Oddur hét sá átti hann
Af øllum haldinn veidimann;
Reckurinn ecki reidast mun vid réttann
sann.

2 Snióholts vøtnum sneckian fast,
Snaka b) átti hlunns vid kast,
Og plógs ad leita í reydar rann,
Med rádi því er Loki fann;
Mikid vogad einatt er fyrir ábatann!

3 Meybarn fylgdi málmaþór,
Er meisinn øldu reyna fór,
Uggiædid er samt vid sig,
Siá vill verkinn nýstárlig
Fárra vetra sliódid var, svo frædi hann
mig.

4 Brúdurinn vildi í bátinn gá
Enn bída ei eptir landi á,

---

a) Odds-bragr S. b) giørdi.

Fadirinn héllt þad heimskupør
Og hana latti af þeirri før;
Hún var ad kyria upp qvædi sín og kúrdi
í stør.

5 Utá diúpid hann Oddur dró,
Ofurlega var feriann mió;
A henni hafdi hann eingann fans
Ecki bar hún þúngann hans;
Manndrápsbollinn mardi í kaf c) d) og
misti lands.

6 Barkinn rann í reginn=hyl
Enn rumpurinn lyptiz aptantil,
Þángad Oddur þegar setst,
Þá vard nockut apturhlesst;
Seck þar gafl enn géck upp stafn, þad
gégndi vest.

7 Stackst á hnífil feigdar far
Og e) felldi hann Odd í diúpann mar;
Sá hann þá hvørki sól ne land,
Synda kunni ecki grand,
Eins og biarg í botninn seck og blautann
sand.

---

c) kafi S. B. d) er S. annars þá.
e) fleygdi Oddi S.

8 Ecki þurfti hann Oddur staup
Ymist drack eda hveljur saup;
Mátti ey hræra hendur hér
Héllt hann þeim fyrir vitinn á sér
Ellegar hefdi hann f) øndu sleppt í ógna
hver.
9 Þar sá Oddur ærinn, skríl
Aurridana og brøndu síl,
Bædi hæng og bleikju lid
Birting., Sprota og þeirra nid;
Eins og sæi g) óluckann brá øllum vid.
10 h) Odd sá þeckti allur krans
Alvanur vid skuggann hans,
Því seggurinn hafdi silúngsbrád
Séd þar opt og líka nád,
Nidid net og nœmt í vatnid nidur kliád.
11 Huxa giørdi sveitinn' synd
Sá þar væri er marga kynd
Ur sínum hóp i hel nam slá,
Og hugdi kominn i diúpid blá
Albúinn til allt ad giøra upp=tækt þá.
12 Aurridar med ugga gný
Eggia lid til hefnda því

---

f) Øndina misst S.
g) óvininn S. Adrir: Andskotan.
h) Þessa vísu vantar í S.

Sókti ad Oddi sveitinn øll,
Og sendi úr spordum idufølli),
Þá var leikur lidinu á i laxahøll.

13 Fátt er svo fyrir illu opt k)
Ad ecki bodi nockud gott,
Því idu súgur ad Oddi giør
Ypti honum i bleika stør,
I marhálm greip med gómakleyf þad gaf
honum fiør.

14 Þótti honum mál ad kalla á Krist
Kom til lands er hafdi mist;
Lofbrag vildi listamann
Láta giøra, og þetta er hann,
Um sitt fall og fagra lausn úr fiskarann.

15 Meyuna aptur hitti hann
Hún var ad gráta skiptapann;
Þetta eitt eg þar um qved:
Þad var lucka hún fór ei med!
Feigur deyr enn fær sá biørg er fiør var
léd.

16 Bárutrogid bió hann á ný
Og bordum jók þar mørgum i
Leingdi kiøl enn lagadi stafn

---

i) hrannar miøll S.

k) Illt er svo fyrir øllu fátt B.

Lagdi þó vid herrans nafn,
Sér skyldi ey súferiann fleyta í fiskafafn.

17 Kaupmadurinn kom um síd,
Kappinn hèllt þad audnu tíd,
Þennann grunna sævar-sá,
Seldi hann Torfa á Hafursá,
Sagdi hann bæri bragna tvo og bagga
þriá.

18 Ádra meinar eins og sig
Sá aldrei geingur vielastig;
Fyrir því trúa Torfi vann
Tilsögn Odds um bátinn þann,
Er eptirá reyndar ecki flaut med annann
mann.

19 Sína farinu sendi hann mót
Synina tvo yfir Lagarfliót,
Því ad róa, enn ránga-skél
Reckum bádum sýndi hel —
Alvota rak uppí sand; enn ei fór vel.

20 Torfi sagdi af megnum mátt,
Því madurinn þóktist leikinn grátt,
Ad fiandinn skyldi hann Odd og allt
Eiga fyrir sitt skipid vallt;
Ecki nema blót og bann fyrir bátinn
gallt.

21 l) Örvabriótar áttu stríd
Enn Oddur kappid felldi um síd,
Þó honum væri i gedinu grátt
Gastkjænuna tók i sátt,
Þau settust eptir samvígsluna í sömu átt.

22 Er hún nú kominn í sinn stad
Alla leid vid Snióholts hlad,
Þar er búid um toginn traust
Og tekid heima vetrar naust,
Kuggur stár á kjölnum fast, enn kaup
er laust.

23 Ecki er sýnt hann Oddur minn
Eidinn kunni ad halda sinn,
Þegar hann sér á sumardag
Silúngs m) geingdin kémst i lag;
Þad mun fara sem forlög kliást og felli
eg brag.

---

l) Þessa vísu vantar í S.
m) veidin S.

## Snióholltsferian
### först i störum Stormi.

Snióholltsferiann frægasta
Féck nu þrautaskil a)
Margra hafdi hún kénnt kasta
Og komist fram ad hyl;
Sitt beid hún seinasta í sumarbil.

1 Lastinn veik hún hédannúr heimi,
Hafdi tídum mædst á geymi,
Aldrei sást i æfugstreymi,
Svo ældu lítid fil, s. b. h. s. i. s. b.
2 Giört hafa hennar festar súna
Frétt hef eg þad fyrir skømmu núna,
Ofan fyrir feigdarbrúna
Féll b) í gil; s. b. h. s. i. s. b.
3 Angrid giørdi hann Oddur kanna
Allra frægstur veidimanna,
Lidur tion med sínum svanna
A silúnganna hyl; s. b. h. s. i. s. b.
4 Datum sertugt og tvø ára
Yfir sextán hundrud párast

a) spil. b) hún nidr?

Nú er ferian feikt af kára,
Fell af lausum kyl; s. b. h. s. i. s. b.
5 Um óhófs vedur á ári þessu
Almanaks var skráð á pressu,
Oddur trúdi ei tólors klessu
Kiænann sann þar til; s. b. h. s. i. s. b.
6 Meistarinn sagdi ad merkia fundi
Megn tídindinn byggi undir;
Þegar feriann sauk um grundir
Framkom stiørnu spil; s. b. h. s. i. s. b.
7 Veidimenn og vøtninn hrína
Vantar hann Odd med ferju sína,
Þar á silúngs sídur skína
Sást fyrr honum í vil; s. b. h. s. i. s. b.
8 Eitt var teikn fyrir ferju falli
Ad fliòts aurridar veiddust allir,
Djúpt og grunnt um hængia hallir
Horadir innst í svil; s. b. h. s. i. s. b.
9 A þad verd eg einnig minnast
Ad eingum giørir nú veidinn finna,
Hvørt menn rekja út ridinn tvinna
Eda renna krók í hyl; s. b. h. s. i. s. b.
10 Þad batnadi víst ef bytnan feingi
Bót á ný so vardi leingi,
Sauminn, rærnar, sterka streingi
Og steyptist bikudum il; s. b. h. s. i. s. b.

B

11 Ef flódin triám á fiørurnar breita
Fer eg nú á hann Odd ad heita:
Vilji hann aptur bátnum beita
Bordinn legg eg til; s. b. h. s. í. s. b.
12 Meir enn goldid mun hann ei halda,
Þó mætti eg þeirrar uppreisn valda,
Er ádur giørdi eg um ad skialda
Og auka af gledinnar spil,
Sitt beid hún seinasta í sumarbil.
13 Væri þad gott ad vildu fleiri,
Veita þad til skipsins heyrir;
Nú er eg arnar leidur leyri
Leingur hann ecki þyl.
Sitt beid hún seinasta í sumarbil.

---

## Gaman-Erindi
um
## Jón Ormsson
er var Smalamadur í Vallanesi.

---

Ecki vilsi hún tóa honum Ormssyni af
Hún lá undir hrauninu og heldurs vært svaf,

Slæm voru þau slisinn hann sló hana med
staf,
Í sér giørdi hún augun sem eldbjartann raf;
Hrøck burt; enn hann stód med hjegóma skraf
Svartgráann saudbít sendi hann og gaf,
Bad hann bitti beinbrot og blágræna haf
Ofrif og útsótt og úldna í draf,
Hálstak og húdlos og heingíngarvaf,
Mergd hunda, matskort og modreikjarkaf;
Ad eiga skinnid ilnæmt undir kióls laf
Bad hann, eda siá selt ser fyrir traf,
Enn ecki vard þó parid af.

---

## Um Þorgeirs bløglega Bygglngu.

1 Ecki er lángt ad leita
Laga greinum; ad;
Á Hofi stár til streita
Steud og enn vid þad.
Geiri lítur lægra hald,
Ødrum bygdi út frá sér
Enn eckert hafdi vald.
2 Líka litst mer illa
Á laga=stiórnarmann,

Það er vondsleg villa
Hann veik að þessum rann;
Geira bygging verður vøllt
Báðir missa fé og faung
Og fara á húsgángs røllt.
3 Qvikuar bølið og qvíði
Þá klerkurinn hreifir sér
Í laga sterkur stríði
Og stefna báðum fer;
Søkin fellir sérhvørn mann,
Ef hún er raung og rétti á mót
Og rakinn af þeim sem kann.
4 Sorg er að sjá hann Geira
Hans seta er undarlig
Þó yrki eg ei um það fleira
Á honum stansar mig;
Jðkar hann lóð sem leigumann,
Landnám fullt og sektin súr
Safnast nú yfir hann.
5 Þó sértu løginn að læra
Og laungu réttarbót
Það er þér einginn æra
Ef þú giørir ámót;
Hvør sem veit, enn vill ei rétt
Tekur um síðir tvøfaldt straff
Tel eg það ekki létt.

## Oddur Þorvardsson
spádi um
# Vedráttúfar.

1 Á Odd skal eg aldre trúa
Eptir þennan dag;
Sá kann snældu ad snúa
Um snióinn og vedralag;
Því áfelli kom eitt
Enn ecki sídar neitt,
Á þorra greindi hann sólar sæld
Og sumar-vedrid heitt
Og alltíd yrdi hann betri
Uppfrá midium vetri.

2 Med grimd og gráu skeggi
J gard hann Þorri strauk,
Þúngur klepra kleggi
Ur kømpum á honum rauk
Og vedrin voda-hørd
Veiktu menn og hjørd,
Hiá honum Oddi eins og mér
Alla huldi jørd;
Hardnar dag frá degi,
Duga nú spárnar egi.

3 Reikna eg ráð að treysta,
Þó rokurnar auki ský,
Þeim sem þjóð hefur leysta
Þessam raunum í;
Hann lætur ei bresta brauð,
Biargar a) oss í nauð.
Enn þótt fákar falli í strá
Og fækki mergum sauð
Utum álfur víða,
Aldrei skulum ver qvíða.

---

## Q v æ d i
um
## J ó n G r e i d a.

A hárri heiði
Er herbergið tvíst,
Það mikla lángleiði
Finnir ei fyrst,
Seint giörir Greiði
Að gánga í víst.

1 Hann skautst á húsgáng
Hafði mikið fótspráng,

---

a) opt S.

Smaug í margaun lot=kráng
Kunni lítt við búſtáng;
Kaſtar nú á ſinn ſváng
Soðgrautnum fyrſt.
Seint giørir Greiði að gánga í viſt.
2 Lagði út á Láungt nes
Líkaði það umvies,
Um rekna røſt tries
Reikaði og þúngt blies,
Varſt eptir bygð hlies
Um biargtángann ytſt
Seint giørir Gr. að g. í. v.
3 J fornum ullſtack
Við árfoſs og brimkrack
Ominnis øl drack
Oður á ſitt flack,
Mína þrátt fyrir þack
Það gár ſvo fyrſt; ſ. g. Gr. að g. í. v.
4 Ogiørt er allt hér,
Einginn haus hlaſs ber,
Tað brenna tún ſer,
Tønn fáka rót ſkér,
Hyrðirslaus hierð fer
Hefur lømb miſt; ſ. g. Gr. a. g. í. v.
5 Haugar dyrum hiá ſtá
Hefur einginn þá frá,
Myrlénum má ná

Margt er þad sem á lá;
Dagsverkinn dásmá
Drós reiknar tvist; s. g. Gr. a. g. í. v.
6 Vís er fiskur vid sjó
Veitist mér ei þó,
Smidiu vantar kol kró
Enn qveikiuna í eldstó,
Einginn hér upphió
Einn vidarqvist; s. g. Gr. a. g. í. v.
7 Nýa sá menn sé strax
Forgun mun þad eins dags,
A trippunum er fullt fax
Fast og kennir óhags;
Einginn til afbragds
Ardurinn flýtst; s. g. Gr. a. g. í. v.
8 Hátt bodar hús fall
Sem hálfreisa kapall;
Gardurinn gamall
Er giør hruninn á hiall,
Uppá hans einn stall
Fæst ei torfa rist; s. g. Gr. a. g. í. v.
9 Seggurinn sér ræt
Enn sit eg næsta ósæt,
Aldrei hér inn a) nær

---

a) um S.

Því oflausu vid slær —
Dofnud í dag giær
Dvinar brags list
Seint giörir Greidi ad gánga í vist.

---

## Nýir Bámenn bila stundum fliótt.

1 Sanda nidur og siáligt sprund
Settust ofan á melinn sliett;
Raudavidur og hún á hund;
Hyskid dettur í sultiun rétt.
2 Peynoll bila ætlar af,
Agalaus þar hnoda eg um brag;
Heytoll skila giördi er gaf
Gagara a) fans um bodunardag.
3 Lambid hristi lucku slíór,
Lagdi eg tal vid þennann hal,
Drambid misti darra þór,
Í dalinn Fliótts nú rída skal.
4 Alla saudi sína át,
Siálfur gráa folann á;

---

a) Fans S.

Kalliun snaudi komst í mát
Kofunum smáu geck so frá.
5 Snúa þrádi ad gullskord greidt
Giørdi hún unna hiørva runn;
Búa nádi um árid eitt
Og hún G u n n a lucku þunn.

---

## Omennsku-Qvædi*).

1 Hvad mun því valda,
Ad vorrar aldar,
Er vil so hátt,
Ser sku ei halda
Þá fiúkinn tialda
Um feunta gátt;
Sú grandadi ei allda
Þeim gømlu þrátt,
Mig gyrnir ad skialda
Um slíkann hátt.

*) J gømlu handarriti í Arna Magnussonar Safni No. 441 í 120. eignaz þad Sra. Steph. O S.' Þar finnaz tvær afskriftir, af hvorum hin seinni inni-heldur byriunina enn ei sú fyrri.

2 Hiá fyrri mønnum
Sér undi í ønnum
Hid ítra géd,
Þeir gnístu tønnum
Med sóma sønnum a)
Og sóktu séd;
Soddann grønnum
Var luckan léd
Enn leti bønnud
Og siálfræded.
3 Til hlíku klædum
Enn hægdar skiædum
Þá hegdad var,
Um hiſpurs fædu
Og húsgángs rædu
Þeir hirdtu ei par;
Þó blæddi úr ædum
Þá broddurinn skar
Brosandi qvædi
Heyrdust þar.
4 Þá gyrnti ei kaupa
Ei rølta né raupa
Eda ríða þrátt
Enn millum staupa
Nam hialdur ad hlaupa

a) Sæmdar svønnum B.

Um hug og mátt
Audurin draup
Ad yrktri b) gátt,
Omennskann kraup
Enn leit ei þátt.
5 Víkur nú efni
Frá vinnugefni
Ad vorri þiód,
Sem einatt nefnir
J áti og svefni
Sé unun gód;
Þótt ad mér stefni
Hún sterkum mód
Stødva c) ei vefnad
Þessi liód
6 Af þessu meingi
Vill þegn ei leingi
Sér þéna braud;
Svo verk ei springi
Sig gipta geingur
J grønnum aud;
Med kiól og heingi
Sem bríngann baud
J buxunum streingist
Þeisann raud.

---

b) itri M. c) stilla B.

7 Med gagnligu hári
I gyllini ári
Sig giörir hann;
Beitslar nú klárinn
Med bólginn nára
Og bólstad fann,
Um sumarid dára
Seggi vann
d) Enn setti skára
A túnhalann
8 Vid sína maka
A sigurinn e) slaka
Nú svallar fyrst,
Med þeim er ad qvaka
Og tóbak taka
Pad talinn er list,
Hey þarf ei raka
Hríngarist
Af hestinum vakra
Eingid bítst.
9 Nær húsgángsdretti
Er liúga af lietta
Ad løndum ber,
Pá spyria þeir frétta
Og fara ad metta

d) er settu skáran M. e) laka M.

Frodu-kér;
Af skøllum detta
Enn sérhvør sver:
Ad satt muni þetta
Er fregninn ber.

10 Med hattinn i vånga
Þeir spiátra, þeir spránga
Og sperra sinn legg;
Þeir stíma, þeir slánga
Þeir masa, þeir mánga,
Vid moldar vegg;
Med skúfana lánga
Þeir laga sitt skégg,
Og láta þá hánga,
Þó úti sé hregg.

11 Þeir renna, þeir ríða,
Þeir skrefa, þeir skrída
A skiótum jór
Med hempuna sída
Og hettuna vída
Um heila-kór
Sá undan kann hýda
Lætst ecki miór
Enn ertir ad bída
Er mínkun stór.

12 Frá morgnum til qvelda
Ad matnum velda,

Þeir míngra ſkr,
Við tóbaks eлda,
Enn tadann óſellda
A túnum þver;
Qvíærinn ſelda
J kaupſtadinn fer
Hvørt konunni géld·
Eda mylk hún er.
13 *) Fyri kiarnann ſtrocka
Qví=ærnar, ſocka
Og klædi úr ull
Tóbakid locka,
Ur kiſtum kocka
Pað kaup eru øll;
Briddíng þrádsdocku
Sem barna=gull
og borda að plocka
Er gagnſemd full.
14 a) Þeir brióta, þeir ſoſa,
Pað hjúinn loſa,
Þá hinir ſlá,
Enn hún fyrir ofánn
Med handa doſann

*) Hér byriar hid fyrra gamla handarrit á turni A. M. ſafns No. 441 í 12 bl. formi.

a) Tvø næstu erindi vantar í M.

Og hóstann smá;
Í hlødu kofann
Er hringd ad siá,
Til heys og rosa
A kapla hriá.

15 Í túnum stendur
Þá seppi er sendur
Og sigad á þad aa),
Enn bóndinn og qvendi
Nú breida hendur
Báli ad,
Fingrinum benda,
Ei fara úr stad
Fénadur lendir
Uppi vid hlad

16 Konurnar dóla
A qvíabólid
Þá qveldi er nær,
Med tómar skiólur,
Enn tídt heimróla
Því tíndust ær,
Margar sig sólu
Í fyrra girr,
Um fiøll og hóla
Svo tvístrast þær.

---

aa) af þad M. þ B.

17 Nú kemur hér Þorri
Þá kríúpur hann dorri,
Og kolltna bb) ær;
Þá segir hann Snorri
Í sumum korri
Eun svellti tvær,
Að ætlan vorri
Sér Eunið klær
Eun ei veit hvorri
Nú bjargað fær.
18 Fyri løtum a la
Komst allt í þaula
Og aura tión,
Nú drynur hún baula
Enn børninn raula
Við baðstofu ðu;
Af sultnum gaula
Þau Gunna og Jón,
Þeim géfst ei að maula
Eun komið er nón.
19 Hér þori ég sveria
að saumuð er veria
A svánga kú,
Í fiúkum að beria
Og brumið að meria

bb) kleckna M. ß.

A baulann nú,
Ef sést til skeria
Þá skrøltir sú,
*) Um skorpuna hveria
Hún svelltir í bú.
20 Fyrir b) aumu hreist,
Þad ablar hneysu,
Er einginn húrd,
Nú kastar hann meist
c) Í miólkurleysi
Og matarþurfd,
Þó þyrillinn geysi
Og þiel sieu urd
Þróast nú qveisa
Af innannskurd.
21 Nu kémur sá dagur
Ad klárinn magur
Í kreppu er,
A litinn fagur
Ad rísa ragur
Og risia ber;
Þad er nu slagur,
Hann segir e) med sér
Og sorgar bragur

*) vid sképnuna M. a.
b) Ørmu M. a. c) af B.
e) og sver M.

Ef þeſsi fer.
22 f) Nær lidinn er nöttinn
g) Þá lifnar ſóttinn
Um luckubann;
Fákanna ötti
Þá finnſt þinn ſkiótti
Er fleſta vann,
Dávakur þötti
Og daudur er hann,
Dapra hug-ſóttir
Eigandann.
23 Hann anſar nú þiádur
Af ørbyrgd hriádur h)
Því innann ſkér:
Hvad mun til ráda
Því ſkemdinn ſkráda
Nú ſkollinn er;
Eg heſi ei dád
Ad hiálpa mér hh)
Hamíngiann nádi
Þá ſvona fer!
24 Sér øllum ekur
Og rádinn rekur

---

f) Þá M.
g) Lifnar úrſliöttinn (?) M. α flöttinn β.
h) hádr B. hh) Þér M. β.

Um rænu mið;
Þá vitsku vekur,
Og svarar nú sekur,
Við sárann qvið:
Ef aura-frekur
Ei leggur lið
Oss leingi tekur
Sveitin við.
25 Nú tekur um hagga
Í vesøld vagga
Hann i) veruna sleit;
Með hópinn kiagga
Í hýði plagga
Á hennar sveit.
Hans eru nú baggar
Børn ófeit
Enn blossar þaggar
Í eydi-reit.
26 Eg segi þær frettir
Að so gár þetta
Í sveitum nú;
Omennskann sprettur
Og álnum flettir
Hin øflgu bú,

---

i) Veriu M. a.

Fullrøst ad metta
Húsgangs hjá
Er haldin hin rètta
Og sanna trú.
27 k) Abyrgdarminna
Er ærlega ad vinna
Og eta sitt brauð;
Fyrir orku stinna
Og láta ei linna
Ad lofa sinn Gud,
Hann gætir sinna
Og gefur þeim aud,
Gódur þión finnur.
Biörg í naud.
28 l) Ad hródrar safni,
Þó hèdan af kafni,
Nú hyggi drótt,
Omennsku hafni
Svo aurar dafni
Af idnum þrótt,
Slensku nafnid
Er leidt og liott

---

k) Næsta erindi vantar í M. a.

l) Hródrar safni þo hèdan af drafni þa higgi drótt M.

Í leti ad m) drafna
Er versta sótt.
29 Búmennum gódum
Sem bænda slíódum
Eg blessan sel,
Og vinnu-módum,
Síns verks á slódum,
Þo vari jel;
Máist svo ódur
Og n) mælsku þiel *)
Minnist þer lióda
Og farid nú vel!

---

## Hún-Vísur **).

1 Heimsk er hún húa
Hún horfir eptir ám a);

---

m) Kafna M.
n) mærdar M. *) ɔ: þiøl.
**) erindin standa í annari røð hiá S. og M. Hesta sækir húa, hleypur eptir ám S.
a) Hesta sækir hua og hleypir eptir ám M.

Illt er tródu ad trúa
Tekur hún Jarp og Glám;
Strauma lætur strika
Stundum Móaling,
Brún og Pertu prikar
Svo piltsid víngsast kríng;
b) Hrísing skékur Hroll og Bleik
Hvimpíngc) tekur og ljósann eik,
Mósa vekur miela-leik
Svo meidast nedri þíng.
2 Heimsk er hún húa d)
Hún horsir uppi sól;
Fornvidinn og súa
Fiztrar hún i ól;
Sú hefur vanist vída
Um Vallanesid breidt,
Kjæraun kann ad rída
Svo køplum verdi heitt;
Fús ad greida fræda røk
Fiskinn veida kann úr vøk
e) Kiæn ad enda sinni søk
Og sveria ef til er neydd.

b) Heiman rídr H. og S. M.
c) hrinu tekr hroll og bleik M.
d) rekr M. . .
e) kríng S. M.

3 Heimsk er hún húa
Hnipar sig vid liós f)
Lætst hún farinn í lúa
Og lángar útí fiós;
Hallar hatt i vánga
Hvelfir brúna skiá,
Lætur góma gánga
Med geispum til og frá;
g) Sídka tekur hægri hønd
h) Hana klekur mærdinn vønd,
Ugginn vekur audarstrønd
Og ísurodinn grá.
4 i) Heimsk er hún húa,
Heldur ordinn snád,
Sú kann dorg ad dúa
Og dreingium sækja brád;
Birtíngum og brøndum
Brá hún uppá krók
Settist seint ad løndum
Því sílángurinn tók;
Bleikjur tældi beitu á
Burtu fældi sílinn smá

f) Hún horfir uppí liós B. horfir fram í ljós M.
g) síga M. h) henni M.
i) Heiman ríðr M.

Issinn kiældi audargná
Þvi ei var gyrdt i brók.
Heim kom hún Húa
Hún fann ecki par,
Ut réd snádi snúa,
Snádi húunnar;
Húa vildi hátta,
Harla lúinn var;
Adr nam ad nátta
Nett skakkfótr þar k)
Af því fær hún enga ró
Upp ad lærum hulinn snió,
I ullar giærum um sig bió
Og átján hrúta skar.

(Enn ein vísa: Hatturinn og hún Húa, Þau hittuz eina stund &c., stendr hiá S. og fleirum, enn hana vantar hér í M. hvar á mót hún þar stendr seinast í ódrum Húuvísum, orktum af P. Y. S.)

---

k) Þá lá fyrir í sænginni skakkfótr snar B. þar M.

## Utmálun hins vænsta Hests
(ex Virgilio collecta).

1 Vittu ad folinn fullhátt
I feitri snemma akurbeit,
Hann keirir hófa kynstór
Og kríngvefur bein slíng;
Nasar fremstur leid laus
Og leggst á módu stráugt flód
Dragur yfir brú
Er ecki sá né fyrr géck.
2 Hrædiz bresti og brak síst
Ber sig hátt, svo vel fer;
Snidugt hefur høfud
Hann og qvidinn stuttann,
Sældarlegur á brigghold
I hrósun vødva augliós;
Módugt lísid bríóst breid
Bera virdast med sér.
3 Gédsøm hesta-há raud
Hefur þótt og móalótt,
Enn síst prísast leirliós
I leik reidar eda bleik;
Ef háreisti heyrt fær
Af hervopnum fiær sér

Veit ei hvar skal hvíla fót
Hlustir leika af pipurleik.
4 Knýr um nasir megnt mása a)
Móður líkur elds b) glóð
Svíran prýða má meir c)
Mjög varið þyckt fax;
A hægra liggi hallt bóg,
Hvylftiz d) lendinn tvíbeud;
Hann holar jørð, enn hófsferð
Hvellann giørir dynsmell.

## Hesta-Vísur.

### Fiølmóðr.

Frostvindur fast andar,
Fiølmóð eg el góðann,
Hann snídur tønn tødu
Tåhallur á stalli;

a) Titra líða-mót med B.
b) Mióð. c) Knýr rc. B.
d) Hvíliz B.

Raudſkióttur, reid-léttur
Rennur ſoell og menn fellir
a) Pipur-eyrdur, hlauphardur
Haus klipptum laus yptir.

Penni.

Penni ſtár vid ſtall ſinn
Sthfir hey med nóg líf;
Eyrunn hefur allſnør,
Augunn ſkiær ſem glerbaug;
Lendadur ſvo lágt ſund,
Liggur eptir hans hrigg,
Reiſtur vel med breid brióſt
Bángar fold á ſkeidgáng.

Haugbúi.

Flughaum Haugbúa
Hey gef eg; ei tefur
Sá ſkeidinn ſíbrádur,
Sett fetinn létt gétur
Øll jøfn er áll ſafnar
Isberki grís-ſterkur;
Flis klaka laus leikur,
Lopt kófar opt hóſum.

Steintrompr.

Vid ſtympaſt vid hann ſteintromp
Staut er had og nóg kraut;

---

a) Pipeyrdr S.

Anar hann fram sem ólmt liðn
Ørdugur og knýr jørd;
Lýr arma lífstór
Lángar miøg í fótsprång
Flestir halda hann fridlaust
Firugasta reiddýr.

Rosti.

Rosti er vænn reidhestur,
Reistur er hann sem þeysti
Hastur i glødum gusti
Geist skeid af magn=hreysti;
Hvesst járn gusudu gneystum,
Gnast i hófakasti,
Ristir opt faldin frosta
Fastann saman í rastir.

Trafali.

Af mér þarf ad fala
Einginn madur Trafala;
Sa kláriun kiørvala
Kvarnar upp úr hardbala;
Trapp lætur hóf hiala,
Herdir flugid kastmala,
Med skeifna skarkala,
Skakar a) urd í vindsvala.

---

a) Aur S.

### Berfótur.

Berfótur býr úti,
Bela steytir selfeitur;
Krapsar grundir glepsandi
Gliá=skúfa á þusum;
Snió þveitir frá fótum
Fialldrapa aldur skapar;
Vída dreifir skrid skrofa
Skaddar hardan gadd svardar.

### Horntoppr.

Heppinn var Horntoppur
Hann komst í gott rann
Med gráum hest úr gaddsnió
Og gifkadi á heyvisk;
Stall rækir stopull
Stíngur nøs í modbýng
Hann kalla eg hest minn,
Þeir halda nafn mitt Þorvald.

### Volki.

Volka hælir fróm fólk
Flest og kallar gódhest;
Lágvaxinn, handhægur
Hann b) kann ad bera mann,
Bítur i mélamót
Meidir stord í kappreid,

b) Þykir St.

Aptur fyrir sig setti
Sá stóran opt jór.

Andvari.

Andvari yfir grund
Akafann hófs mák
Flytur sem fari skot
Og feikir miklum jórreik.
Hrædist einga áreid
Ær ad hlaupa svell glær,
Hestamenn ad honum dást
Heyudum enn fá ei,

Elgur.

Elgur hefur allsbert
Allt høfud framanverdt
Og farid uppsvert
Ecki þykir neins verdt;
Pad er Þorvaldar pert
Þó er taglid um þvert;
Stýst upp vid stert
Stórilla var þad gért.

Víkingur.

Vakurgeingum Víkingi
Vel eg tødu, jel stødvast;
Lopt tárast, drift dreirir,
Dynur foss vid skinglossur.
Þykk grennast þøk unnar,
Þrótt brákast sótt snáka,

Bygd jøtna brádbitnar,
Blæ velgir Hræsvelgur.

Blængur.

Blængur kann lypta lúngum
Leingir hann skeid aflgeingur,
Angurlaust tredur so einginn
Ungur jör griót og klúngrid.
Sleingir hann hvita þúngum
Þángad sem bífur rángast,
Syngur í sem þyt slaungu
Sára slíng Hrugnis fingra.

Bilur.

Bilur skeidar virdta = vel
Bil eg þará giøra skil
Þylur sauda, mørk sem mel
Mylur griót enn syndir hyl.

Litfari.

Litfari minn lúinn er
Liggur hann út af flatur,
Hann verdur þá hiedann fer
Hrafna og tóu matur
Enn skinnid skafid og herdt;
Um øndina veit eg ecki par
Hvad af henni verdur gért,
Eg gét þar ecki géfid til svar
Greidt nie opinbert.

Skióni.

Skioni óskackur reyniſt,
Þó ſkióna þeir kalli mióna,
Skióni ſá ſkeiſum týnir,
Skióni giørir heytiónid;
Skióni leid ſkundar beina,
Skióni mér allvel þiónar,
Vid ſkióna eg ſkal mér una
Þvi ſkióni minn leidir priónar.

Foløld.

Foløld fiøgur ſánefnd miøg hér ſlacka um
bakka,
Heſtvøl beſtu hiklauſt þykia
Hníſill, Viſill, Díſill, Fíſill.

Einmani.

1 Einmani feck íllt kál
Þá ofan datt í kýls ál,
Honum rendi rót hál
J regin-hyl med fótpriál;
Þá var druckinn driúg ſkál,
Dró honum í þad mál;
Dværdar íllt tál
Allt féll ſem ſløckt bál.
2 Einmani er alklipptur
Utgángi nú ſviptur
Tødumodi tvígiptur
Traudlega mér fráriptur;

Frampár og uppyptur
Á stallinn hátt lyptur,
Illa þykist afskiptur
Ef eingium er frá kipptur.
3 Augun hvetur Einmani
Undir skiæra stúrsglani
Alvanur stallstiani
Steittur út á qvidþani;
Fram hygg eg topp trani
Tvær hlustir uppspani
c) Hálskértur sem hani
Hann er einginn kynvani.

Skildíngur og Bleikialíngur.

Um báda qviknar bragsmíd
Bleikialíng og Skildíng,
Hestum veit eg skáka skást
Skildíng og Bleikialíng
Skeidinn ríska best bráд
Bleikjalíng og Skildíng
Naupa menn í skáldskap
Af Skildíng og Bleikjalíng.

Gosi.

Gosi lítid lof fær
Lendmiór med þunn lær,

c) Hauskértr S.

Hann hamar sig og høm klær
Hvar sem undir skiól nær,
A ólønd ser uppslær
Eins og kálfur vindær,
Hríd=blautur, húskjær,
Hann er ecki mann=bær.

Gosa=Visur.

1 Gosi frá mer greitt fló
Gøtu þá í fiall dró;
Frá eg hann aptur fannst þó,
Er fylltist bygd af haust=snjó;
Hanns vóru þunn þió
Þar med lendinn ofmió,
Strax eg honum stall bió,
Styrknadi hann svo eg hló.
2 Ydur ber þøck þíd
Ad þér hanns felldud miskníd,
Og villu strángt stríd
Stilltud med hót blíd;
Nyrdra teppti hørd hríd
Hvert strá um lønd víd —
Því er hann ei neitt níd
Þó naudbeigdi sú tíd.
3 Hold er beini fiær frá
Fagurt sem menn tiá
Þar ófrýn er ad siá
Yfir sínum tóm há;

Ef sældvanir sult fá
Siást láta fyrst á,
Þessi sanna mál má
Minn jór er vidbrá.
4 Hef eg nú hans hold fest,
Heyi á sem gløggt sést
Svo ad skadi si-lest
Svellinn hanns járn hvest;
Þistilfiardar því prest
Þori eg nú med raup mest
Ad skora á hólm þar skref siest
Til skeids á sínum gódhest.
5 Hvørt þá er fyrir grund, griót,
Grímnis bedju mein liot,
Eda Ymis svørd-sót,
Sveita hrært vid ármót,
Minn skal giardafill fót
Flytia yfir hvørn hniót,
Þá er sem hepti næm nót
Nordlendskann reidskjót.

## Sira Biarna Gíssurssyni
### tilskrifad fordum.

1 Ritid styttir ferd sliót
Flyt eg ydur búkrit:
Læt eg tóra lømb feit
Enn lítil kanna nábít;
Hitann byggir hvert nauf
Heitast eg vid meingeit;
Ut um þessa bygd beit,
Blotinn kom í forþrot.
2. Ullinn skya søst séll
Fiøllum af á minn vøll
Gyllir oss upp glasmell a)
Enn gallar stráinn hrímfall;
Rollur skadar skél ill
Skullu frost á krapsull,
Hryllist Gosi, hann kéll,
Hallast því á modstall.
3 Hestar grenna gadd fast
Gista þeir nú b) ból tvist,
Kasta hóf um hrímrøst
Og hrista sig af ólyst

a) Grasmell B. S. þ. b) Bøl S.

Lesta heyinn límføst
Lítst mer á þau hót síst,
Vid gióstа, þrá og þurr frost
Þústann hylur fiósrúst.
4 Herdir nú á heygard
Ef hiørdinn fær ei sinn verd,
Byrgdir sinna sliótt skard
I furdulegri grasþurd.
Svørdurinn og strá styrd,
Stordar leysa margt ord.
Mærdar feriann skiótt skírd
Skordast hér med veik bord.

---

## Um þá fyrri og þessa Øld; til Skémtunar.

---

1 Miøg var farsæl fyrri øld í heimi
Er undi ser vid akurplóg
Af honum þóktist hafa nóg
Fráskilinn þeim illa óhófs keimi.
2 Eikinn gaf þá ávøxt sinn til neyzlu,
Ei var bruggad øl nie heitt,
Ecki hunángs blandid neitt,
Ellegar borid vín til siórrar veitslu.

3 Allar reifinn hvít vóru høfd til klæda
Enn ecki velkt í eitur-korg
Er uppkom fyrst vid Tyrus borg
Skarlats raudur, er skélfiskarnir blæda.
4 Í grasinu var sofid sætt med yndi,
Þorsta létti lindinn af
Laufgad tré sem skuggan gaf,
Forsvar var þad fyrir sólu og vindi.
5 Þá var ecki skorid hafid á skeidum;
Géstum eckert géck í hønd
Góts á nýrri siáfarstrønd,
Med ráni feingid eda skulda reidum.
6 Herlúdrarnir þøgdu þá um stundir,
Einginn vildi fúss á ferd,
Ad fyrra bragdi reida sverd,
Því blóds vóru launinn ei nema sollnar
undir.
7 Óska mætti yrdi vorar tídir
Rétt umbreittar í þann sid
Er átti sitt í kyrd og frid
Og stódu i føgrum blóma lønd og lídir.
8 Enn nú brennur ágyrndinn sú illa
Heitara enn Heklu glód
Hvørki er sparad líf nie blód
Í þad bál ad bera er seint má fylla.
9 Ecki sefar eldinn þad er hann spennir
Þess meir vex sem meir fær hann

Mettast ecki af því sem brann;
Svo er um ágyrnd, alldrei nægir henni.
Fyrstur manna hver mun vogad hafa
Gimsteina og gullid skírt
Er giarnann vildi liggia kyrt,
Dírann háska, diúpt úr jørd ad grafa!

---

## Gridku-Vísur.

1 Gridkann gyrnist manninn,
Og gétur ei haldid sér,
Einatt syrgir svanninn,
Og sitt á bríóstid ber;
Bidur hún hann med blídu
Ad leika vid hana í leyndum stad —
Hann geingur ei ad,
Hann geingur ei ad
Ad leika vid hana í leyndum stad.
2 Hún huxar hørundid svarta
Hrædi hann burt frá sér,
Nuddar því og nartar
Nasirnar hvar sem fer
Ur lútar løgnum stæka,
Enn sortinn stendur í sama stad

:,: Hann geingur ei ad :,:
Því sortinn stendur í sama stad.

3 Fór hún þá og fíndi
I fornsøltudum mør
Kinnurnar og klíndi
A kjærleiksbótinn ør;
Lítid brádid bætti
Því hvítnar hún ecki heldur enn tad
:,: Hann geingur ei ad :,:
Því hvítnar hún ecki heldur enn tad.

4 Sápuna sídann kiøri,
Er sérlega hafdi dád,
Fægdi í fornu smiøri
Fasíd, enn þad var rád;
Velltir vaungum feitum,
Enn margur giørir þar gaman ad
:,: Hann geingur ei ad :,:
Því margur giørir þar gaman ad.

5 Lýtinn vyrdtust vestu
Vara- og høku-skiegg,
Því hiackadi hún hárinn mestu
Med hállri skiæra egg
Svo eptir stúfar stódu
Enn broddurinn vard ad beittum nad
:,: Hann geingur ei ad :,:
Því broddurinn vard ad beittum nad.

6 Hún strauk um hægri hendi
Og hitti þar vid bót
Svo bardur hára endi
Hvirfi og giørvøll rót,
Sveid hana burt med brandi;
Enn svart vard eptir í svardar stad
:,: Hann geingur ei ad :,:
Því svart vard eptir í svardar stad.

7 Busuliun fékk hún beittaun,
Brúdurinn fann þad rád,
Rakadi svørdinn sveittann
Seinna fékk þess gád
Svo ad úr biórnum blæddi;
Enn mumpurinn vard sem málad blad
:,: Haun geingur ei ad :,:
Því mumpurinn vard sem málad blad.

8 Illa farnast flióđi
Ad fordast vara hý,
Því skéggsinns gamli gródi
Grønina huldi á ný.
Hún rédst haun burt ad reita
Því meiddi hún sig og sárt vid qvad
:,: Hann geingur ei ad :,:
Því meiddi hún sig og sárt vid qvad.

9 Gamla gøntu klæki
Géta menn fælt frá sér

Því elltur undann sækir
Enn uppá þá er sig ver;
Það fèck þessi að reina,
Því sannfrètt hefur það sá sem qvað,
Hann geingur ei að,
Hann geingur ei að
Því sannfrètt hefur það sá sem qvað.

## Státs-Meyar Qvædi.

1 Státsmey sat í sorgum
Sú var ára tólf
Móðir geck um gólf,
Hrigg í hugarinns borgum.
2 Móðir talar af mæði:
"Mitt kiærasta jóð!
Hví ert þú svo hlióð
Eins og und þèr blæði?"
3 Dóttir svarar: "mig dreymdi
Dírann hugis svein
Ver því brióstið mein
Gleði og lyst eg gleymdi.
4 Giarnann vil eg giptast,
Gèfðu mèr þenna strax

Ellegar annars dags
Eg mun øndu sviptast!"
5 "Þú kannt ecki ad þídast,
Þeckann [a] Hngis svein
Stilltu þitt stráklegt mein
Þad skal þér ei lídast!"
6 "Eg kann eflaust náda
Ungann hofgards svein,
Liótt er ad liggia ein,
Venus vill nú ráda."
7 "Þú kannt þegi ad spinna
Þrád nie hør á rock
Og ecki ad semia sock,
Og eckert verk ad vinna."
8 "Eg skal allt med gialdi
Yfirvinna þad
Giptu mig strax í stad
Ef vitinu villtu jeg halldi.
9 Af ástar eld eg stikna"
Hún upphrópadi svo
Og þad tillagdi þó:
"Af bøli og angri blikna."
10 Hvit úngann svanna
Ut af sló í rot

---

a) Adrir: Hofgards.

Pafslegt pikubrot
Því brúdi mátti ei banna.
11 Dreypa vard á drillu
Því daudinn búinn var
Þó um sídir þar
Raknad' úr roti illu.
12 "Æ eg um þad qvarta
Ör í brióstid fló
Okreinkt; Cupido
Sá skálkur skaut mitt hiarta.
13 Uror igne gravi,
Ecki er lagid á,
Þad mun flesta þiá,
Amo, amor, amavi!"

---

## Vandkosin Kona.

1 Hingad og þángad hugurinn fer
Og hvergi þó finn eg á jørdu
Utvalda snót til eignar mér
Og eingin trú' eg hún verdi.
2 Af qvenna hóp mér hrollur stár,
Hann er mér bágt ad deyda,

Vil því medann mín endast ár
Ætíd hiá honum sneyda.
3 Ef stórvaxinn mer stendur hiá
Strax verd eg rír á fæti,
Hina lágu ef lít eg á
Lítt trúi eg hennar giæti.
4 Rík vill vera meistari minn,
Mínkun ad snaudri kalla,
Gladvær sýnist mér of almenn
Ei kann mer døpur falla.
5 Sú prúdbúna mér gëfur grun
Med geysi-dreysugt ædi,
Enn hin tøtruga er síst von
Sé eptir mínu gédi.
6 Holdmikil sveita dreifir daun,
Daudaum møgur lík er,
Ad ofmálugri er mer raun,
Ofþøgul fákiæn þykir.
7 Sú únga ofmikils af mér
Mun krefia á hværri stundu,
Hin deckva illa sómir sér,
Sottgiarnt er følleitt sprundid.
8 Of augnføgur mér auka má
Innvortis þánkann skiæda,
Hinni rángeygdu flý eg frá,
Fiørgømul vill mig mæda.

9 Santa er sú sem alltíd hlær,
Ohírt hrædist eg qvendi,
Qvedandi Snót til kiænsku ei fær,
Qveinandi hrigd mér sendir.
10 Það kann ei víf í flocki ad fást,
Fánýtt er það ad reingia,
Hvar vid trygd mína og hjartans ást
Eg hyrdi samann ad teingia.
11 Og fyrst eg ei þá finna kann
Sem fullvel má mér haga
Þá ætla'g ad vera minn eginn mann
Um alla mína daga.

---

## T i l h u g a l í f.

Þetta er mikid dínglum-dart
Dælan sú sem geingur hiá,
Yngismenn eru átta snart
Eina ad gipta bauganá;
Það vill verda mátu-margt
Ef madurinn skal hana G u n n u fá,
Þessi snót er snúinn i skart,
Snotur-lífud, gild og há,

Hænueygd med hørund biart
Hír á kinn og nasasmá,
Vaxtarlagid er allt í art
Yfirliturinn, brún og brá;
Vidillinn þykist haldinn hart
Ef hana ecki festa má,
Keirir hann upp sinn knefilbart
Kossa velur fimm og þriá.
Píkann leikur pipara tart
Púsid vill sem fyrst hún fá,
Bádum þykir í brotid svart
Ef bóndinn géfur ei skrislegt já.
Um skírlífid er skrafad margt
Enn skyndi-brullaup verdur á.

---

## Skéggia-Visur.

---

1 Skéggia átti eg skeinkia
Skyr, hann vildi róa
Arla á einni tíd.
Þá tók eg ad þeinkja
Þad væri fínt ad prófa
Hvad qvok hans væri vídt;

Rétt' eg ad honum rokna stórann spada
Reckurinn vildi máltíd sinni hrada,
Hixta tók og höndum ad mér bada
Þá hefndargiøsinni var hann nidur ad
miada.

2 Stórt mig tók ad stansa
Steitt' eg hann fyrir brióstid
Geisi gódann þick;
Eingu villd' hann ansa
Utann hann greip fyrir hóstid
Sáud þér soddann skick?
Hann heiktiz nidur og hálsinn miøg vid
reigdi
Enn haturlega spadanum burtu fleygdi,
Tosadi fast enn tannaskjólid beygdi
Til mín sem hann augunum nockud reigdi.

3 Hóf eg hátt ad kalla:
"Háki! villtu meira?"
Þá sem hann þicktist vid
J honum œmti valla,
Ecki talad' eg fleira
Til móds vid Marteins nid.
Heyrda eg ecki hvad hann vid mig sagdi
Hiusegin var hann suússaralegur í bragdi,
Hyddi, strauk og halann á bak sér lagdi
Horneygdur sem fyrr var jarlinn Agdi.

# Øl-Qvædi*).

1 Krúsar løgur
Qveikir bøgur
Og qvædinn smá
Dæmisøgur og glettu grá;
Skúmin fegur
Fóta skiøgur
Færa margann á
Inter pocula.
2 Øls til veida
Allir skeida
Og erindi fá;
Hinir breida bordid á,
Mat uppreida,
Mælsku greida,
Magnast kætinn þá — i. p.
3 Qviknar þliómur
Heyrist rómur
J þvørri krá,
Vøknar gómur og vara-strá,

*) Ádr prentad í Herra Conferenzráds Dr. M. Stephensens, Gamni og Alvøru 2 Hefti (1818) B., 229; þar er vidqvædid útlagt: Er menn dreckast á.

Blandast ómur
Bikarinn tómur
Vellur yfir í rá — i. p.
4 Enn hann lángar
Ut ad gánga
Og eykur þrá,
Giarn ad stánga staupinn frá,
Hinir mánga
A herdar a) bánga
Og hnefa í bordid slá — i. p.
5 Kalla skeilu
Ef hálfu og heilu
Hafna má
Og lætur ei beylu bylia á;
I hugarinns veilu
Hardri deilu
Hreifa ney! og já! — i. p.
6 Sumir drecka
Utann ecka
Allt þad fá
Vín á beck b) sem vatnid blá;
Nefna recka
Þessa þecka
Þeir sem horfa á — i. p.

a) Hurdir B.; S. o. A.
b) Og Seck (Sekt?) B. S.

7 Fyrir þvi kísa,
Hvetia hnífa,
Hoggva og slá,
Kampa hrífa kinnum frá;
Hárin drísa
Hátt sem fisa
Hey eda þornad strá — i. p.
8 Skørum róta
Becki briota
Bord og slá,
Kønnur hrióta og føtinn frá;
Kraptar þrióta
Enn kúlann lióta
Kiprar augad blá — i. p.
9 Hlýtur ad klíngia
Dalanna díngia
A dúkinn blá c)
Hallast pýngia opid á;
Kønnum hríngia,
Sumir sýngia
Sol sol fa sol fa — i. p.
10 Sídann halla
Heila stalla
Hægindid á
Stirdann pall eda stóra slá,

c) Grá G. og A.

Blunda valla
Blöndu-dalla
Belgia tvo eda þriá — i. p.
11 Hrörnar blída
Enn þreifist qvída
Og hugarþrá,
Millum hrída huxun fá;
Raudum vída
Belgiann strída
Beltir hvarma skiá — i. p.
12 Hósta klidur
Ráma ridur
Rædu frá,
Síga nidur hliódinn há;
Kreppast ydur
Leggur og lidur
Leika þrædi á — i. p.
13 Ur rotinu frekur
Rakna tekur
Raumurinn sá
Höfudid rekur í hvöria krá
Um ullar brekur d)
Lútinn lekur
Laglegur er hann þá — i. p.

---

d) Brekur fyri Brækur. G. o. A.

14 Fyrir því giæti
I sess og sæti
Sér ad slá
Ohófs kiæti allri frá;
Sidug læti
Miødurinn mæti
Mønnum verki hiá — i. p.

15 Fródir sverfi
Qvæda kérfi
Og kyngi smá,
Staupum hverfi stundum frá;
Þó adrir erfi
Skialdann skérfi
Skyggi nockur á — i. p.

16 Hirlegt gaman
Haldi frama
Heldum hiá
Enn stygd og ama stýri frá;
Giøri sér tamann
Saunginn saman
Sumir hlýdi á — i. p.

17 Kérnum veifi
Um kønnur þreifi
Og kéuni á
Enn ad hreifri hyggiu krá

Selskap dreifi,
Í lída leifi.
Ljódunum vík eg frá
Inter pocula.

## Vid Dryckinbord.

1 Lánid drottinns litum mæta
Lét hann elid hiortun kiæta,
Vinid giørdi vitskann sæta
Ad virda skyldi sorgir bæta.
2 Gaf náttúrur gud því margar
Gledur menn og lúa fargar,
Veikum mønnum vid þad biargar
Vel í soltna lífi tiargar.
3 Vel í Cana vatni sneri,
Vill ad allir gladt sér géri,
Ohóf fordist, enn þó veri
Olteitir og skémtun beri.
4 Vel sá þetta vitskann dýra
Vínid giørdi recka hýra,
Vildi því so vald hanns stýra
Vegsømum hans nafnid skíra!

5 Neckar þiggi reglu mína,
Rétt vil eg þeim kénna og sína:
Látum aldrei lof hanns dvína
Leikur hann svo vid saudi sína.
6 Æra gudi æ se framin,
Og vegsemd af øllum samin,
Fólkid úngt og fullaldra menn
Fagra rómi lofgiørd amen!

---

## Géstur á Badstofuglugga.

"Hott! hott og hæ!
Hér sé gud i bæ!
Sæll fólkid allt!
Mér er sárkallt."
Svørudu heima hiú:
"Hvad heitir þú?"
"Jeg heiti Jón
Jóhanns þión
Veik eg um Skørd
J Vopnafiørd
Packadi Krist
Par féck eg vist

Næmur á qver
Nú er eg kominn hér
Til Vallaness
Vors góda prests."

---

## Gudrúnu Stephánsdóttur
### tilskrifad í Nordurland.

Þóra systir þín kiær
Þér heilsar fyrst,
Rannveig henni hartnær
Med hagfelda list,
Anna því ei afslær
Ogiørn á tvist,
Kristín þad vill vær
Þú verdir af sér kyst,
Haldóra kinn klær
Í qvedskapin þyrst a)
Olafur sliót=fær
Sem fuglinn á qvist,

a) í qvedskapnum fyrst B.

Þorvaldur hátt hlær
Á hakanum ytst —
Flockurinn frábær
Fastur í vist.

---

## Um Skáldskap
## Sira Olafs á Søndum.

Sira Olafur á Søndum
Sálma og vísur qvad
Margt gott hefur í høndum
Hvør sem ydkar bad;
Því var skáldi skipt
Skírleiks andagipt;
Mig hafa lióð þess listamanns
Lángseminni svipt;
Fáir fara nú leingra
Þó fýsi ad yrkia þreingra *).

---

*) Þessa støku eignadi Marfa sál. Sørens-dóttiri Módir Sra. Jonathans á Stad i Hrútafyrdi, modur-afa sínunni Sr. Þorvaldi sál. Stephánssyni. B.

## Qvædi, úr Latínu útlagt
(Horat. Lib. 2 Ode 10).

1 Hvert sinn á haf blá
Halda madur ei má,
Eda af ótta þá
Öldum sneida svo hiá,
Ad hann leggi í lá
Landinn svo skamt frá
Ad skip megi á grunn gá.
2 Hver sem med géd hægt
Hóf elskar gullvægt,
Hans fær ei hug lægt
Hreysid fullt af drækt,
Eda sér ad krækt
Öfundina vidslækt
Kóngshalla hoffrækt.
3 Opt vindar eik þiá
Ef ad hún er mieg há,
Stórir turnar fell fá
Frekara enn hús smá,
Tindar fiellum-uppá,
Er i loptid hærst ná,
Af skruggum skell fá.
4 Vid mentad brióst bió
Sá bídur eptir hugfró

Þá amar neyd og óró;
Enn ef luckann mótblô
Qvídir fyrir flatsió;
Færir vetur og snió
Gud á, og af þó.

5 Þó ádur þiádi og enn líd
Ordug mótgángshríd,
Kemur þæg og þíd
Þess linun um síd.
Horpu vekur hliód blíd,
Hendir ei bogan í stríd
Alvaldur alltíd.

6 Hugprúdum haldt þér
Ef hiartad þitt bøl skér
Enn ef luckann lér
Lán, byr, og nóg kiør,
Ofdrambid af skér,
Og segl, ef hátt er,
Síga láttu sem ber.

---

## Reid-Visur.

1 Ecki er stundinn leingi ad lída,
Latir opt vid ferdum qvída

Soltinn úti sveingist jór;
Má þar vid sú málsgrein blída
Mun hann seint úr hladinu rída
Sem sporana snemma spenna fór.

2 Gott er ad sitia í glødum kransi
Giørist eingin sidanna vansi;
Adra stund kémst allt a reik.
Menn ef tína fák og fansi
Fliódinn máské þar til ansi
Ad hóf sé best á hvørjum leik.

3 Opt hef eg hiá seggium setid
Súngid, qvedid, druckid, etid
Hesti rennt og haft vid fót,
Fliódinn framyfir flest allt metid;
Fallvallt sem hér verdur gétid,
Segi eg ad þeim selskapsbót.

4 Þad mun gledia selskap sveina
Syngia, drecka og hesta reina,
Rídast á og ræda gladt,
Afram stika braut svo beina,
Vera þó ei qvídu neina,
Þeinkird' ei ad þad sé satt!

5 Ad flestu skulum vid géfa gauminn;
Enn glediast þó vid horna straumin,
Lystugir med ljúflyndt þel;
Þad mun hefia hofmanns glauminn

Ef hesturinn leikur gladt vid tauminn,
Rída svo og renna vel.
6 Vær skulum ad hinu hyggia:
Hentar ecki fyrr ad liggia,
Sá hafi þøck er sopann gaf!
Víst á eg ei vyrda ad styggia,
Vil eg nú til mín klárinn þiggia,
Enn færleikurinn er þó af!

---

## Adrar Reidvísur.

---

1 Svitnar reidar-sóknid mitt;
Svo munu vera fleiri
Eg heiri;
Vakur jór fær veginn stytt
Vel borgar hann eldid sitt,
Ei kostar keiri.
2 Þó skirist vegur enn blotni braut
Bragnar mega ríða
Án qvída;
Hvør sem drottkuns nádar naut,
Náir ad sigra hvøria þraut,
Og blessun bída.

3 Ad kirga sig á horna sió
Hentugt er ef meingi
Pad feingi;
Rídum gladt enn giætum þó:
Gésa skal klárnum nockra vó
Og stilla á streingi.
4 Jór þó hafi siman sót
Fínt er ad giæta ad vegi,
Svo egi
Keldur, þýfi, klúngur, griót
Kunni oss ad flækia í nót
Svo mædast megi.

---

## Um Selinn.

---

Hér drattar hann stuttur,
Háleitur, misfeitur,
Sundhradur salt vedur,
Sí=diarfur, búþarfur;
Lágeyrdur, lítt heyrdur,
A ládi fær opt nádir,
Velltist í vogbellti,
Veidiz á skrofheidi.

---

## Um Saud sem hvarf.

1 Enn ef hann hefur í unda skúr
Orðið fyrir gríðarbil,
Haukafjalla blíðum úr
Hrapað ofan í Túngugil
2 Gémlur við honum gripu þá
Greiddiz ferðin róms um jörð
Barkastaðar áfrétt á
Ofan svo í Vambarfjörð.
3 Dvaldi hann þar um dægurs skeið,
Dauninn af honum slæmur varð,
Um Parmagötur lagði leið
Og loksinns hljóp út Kríkaskarð.

## Minning mistrar Unnustu*).

1 Eg veit
Eina baugalínu
Af henni tendrast vann

*) Eignaz af sumum Jóni Steinssyni, mig minnir rétt. F. M.

Eldheit
Ást í hiarta mínu
Allur svo jeg brann;
Biartleit
Burtu hvarf úr rann,
Nú er ei hugurinn heima
Því hana ei ødlast kann!
2 Mey brá
Mér fyri hvarma steina
Margri fyrr og síd;
Ei sá
Eg ad heldur neina
Er svo þætti fríd,
Fótsmá,
Fagurhendt og þíd —
Nu er ei hugurinn heima
Hún hvarf á samri tíd!
3 Sú var
Selian ofnispalla
Sidug í máta rétt,
Hennar
Hegdan réd mér falla,
Hæversk var hún og sett;
Afbar
Yfirbragdid slétt.
Nú er ei hugurinn heima
Eg hef ei til hennar frétt!

4 Hún slóð
Hír í fögrum ranni,
Hugð' eg að henni best;
Svipgóð
Sú kann bæta manni
Sorg og hugarins brest.
Pídt flióð
Parflegt kunni flest.
Nú er ei huguriun heima
Því hefur ei til hennar frétt!
5 Píð, teit,
Pakin dygða safni
Prisnað læra réð;
Blíðleit
Besiu qvenna jafni
Baud hið besta géð;
Eg veit
Er henni giæfann lied.
Nú er ei huguriun heima
Því hana eg fæ ei séð!
6 Augn-skiær
Enn á hörundið biarta
Eins og miöllinn hrein
Miög nær
Minu géck hún hiarta
Hírann af henni skein;
Sú fær

Svalad gédinu ein —
Nú er ei hugurinn heima
Því hvarf mer silki-rein!

---

## Öl-Qvædi *).

1 Vinid held eg best brennt
Bæta ólystir,
Ef vel er ákennt
Það hykrar í brysti a)
Miadarstaup sé med spennt
Svo menn verdi ótvistir,
Öllum er öl hent
Ef þá dátt þyrstir.
2 Kiæran gaf mer krús á,
Kiættist hrings-álfur;
Þar skal einginn af fá
Utann eg siálfur,

---

*) Lofsaungr Ölfánga í Gamni og Alvöru 2 Hefti b. 169.

a) Fyri brióst i.

Til gledi brún brá
Vikarinn hálfur,
Einhver veitir ásiá
Ef eg verd sem kálfur.
3 Qviknar biórs kraptur
Kénnir þad happa,
Hér er skérfur skaptur
Skal hann út klappa,
Saup randa = raptur
Renda skúms knappa,
Enn bid eg aptur
Þú á viljir tappa!
4 Fialar og Frosti
Faun Qvásis dreira;
Þá kys eg kosti,
Vid krús = lá ad heira;
Hárs rennur rosti
Ruglum enn fleira!
Ei þverrar þorsti
Og því vil eg meira.
5 Ut er runnid öltár
I miödin sæta
Fullt af því staup stár
Er styggvan má kiæta,
Þó eg ætti fyrn fiár
Fyrir ad bæta,
Gudsfrid! og gott ár!
Grön skal enn væta.

6 Tint b) geingur tollfek,
Tek eg dropann friáls inn,
Hana skeinkti enn í
Audspiliann málsvinn,
Heilsa bodast hér ný
Og hírann yfir siálfs kinn;
Einginn fær á því
Pó eg skoli háls minn.
7 Enn kýs eg ósein
Ölkêrinn skoppi,
Svo verda láti vyrt hrein
Volgt undir toppi.
Mitt geingur málbein
Miúkt og óloppid,
A því fæ eg giørt grein
Ad gott er í koppi.
8 Opt ser eg í ølbón
Enn meir vil hafa,
Eigi rênar sá són
Og sýknin ákafa
Heila setur fullt frón
Og forstand í vafa;
Tekur verda tæp sión
Og túngann ad drafa.

---

b) Tint er tinflaska Dr. M. St.

9 Uppkemur ófrínt
Utgaungu kluckid,
Ecki verdur allt sýnt
Olmála suckid,
Flestallt er til tínt
Tvíbytnu juckid
Af naud-svefni nef brýnt
Og nú er vel druckid!

---

## Um Ásmund Hefdarhósta.

1 Eg spyr þig Ási gódur!
Er þad ad vera einn ferdamann?
Og vel ad ræckia ródur
Ad rída á viku spølinn þann
Er þíngmenn,
Satt eg segi,
Sífellt enn
Reisa á degi;
Skodi menn
Hvad skrafa eg nú um vegi.
2 Þad er alkunnugt ordid
Hvad ákøf var þín viku reid.

Þú hefur stikad stordid,
Stendst á dagferd og bæarleid!
Hestin þér
Hæfdi ad þreyta
Helduren mér
Tións ad leita.
Seint í ver
Sannlega máttú heita.

3 Ási minn! eg hef feingid
Illann reikning á sprøkunum,
Þú hefur gálaust geingid
Og giørt ad svalla út flökunum;
Oddygd ný
Er illur brestur,
Innst vid bý
Hugarinns festur,
Hyggdu ad því
Þinn húsbóndi er eg og prestur!

4 Þig hafdi eg sendt til siófar
Sannfrétt er þadan heppni stór,
Hún var þér legd í lófa,
Enn leggst í sæng þá skipid rór!
Um augnablik
Ymsir hlada,
Er þitt strík
Samt á spada,

Drottins svik
Draga þér vissann skada.
5 Hvad sem þú ablad hefur
Hrekst og liggur vid flædarmál,
Þad hlýtur þýsku refur
Þiggur og britiar sér í skál;
Hitt, er prett
Hans umflúdi,
Heitir rétt
Madka búdir,
Hef eg frétt
Þú hrefnunum ofniøg trúdir.
6 Nær helginn gár ad gardi
Geysar þú fram í midia sveit,
Enn eptir eingin vardi
Þad upp var dregid úr flydrureit;
Svefnværdar
Sér þú slagin,
Situr þar
Mánudagin,
Mér hvad var
Mesti hlutarbagin.
7 Sá er nú munr manna:
Margur geingur vel fram vid sió;
Enn ódnglegur annar
Öllu forspillti því er hann dró,
Steitir legg

Stælir kálfa,
Strýkur skégg
Kollinn siálfa,
Kambs med egg
Kémbir dagiun hálfa.
8 Þér ræd eg þinn lockalángi!
Þú leggir af hádid, gort, og stát',
Enn greidt ad ródrum gángir
Gierist þá tekiau eptirlát;
Letinn ber
Lánga hneysu,
Lærdu á qver
Þundarbeysu;
Heyrst hefur mér
Þú hóstir ad þarfa-leysu.

---

## Dreingurflutti Mat á Eingiar.

---

Vard fyrir mér vondt svall
Vann eg þad fyrir þitt kall;
Af baki eg féll fall
Fótum undir vard hall;
Ofan í gøtu skir skall
Skémdar braut'eg matdall,

Ut um möa miólk vall;
Marga neid á kotkall!

---

## Pisfabragr.

1 Þórdur og Biörn þeir þreyttu strid
Það var austur i Fliótsins hlíd,
Komu þar ad kveldi um síd
Qveiktu eld og báru á skíd
J leyni.

2 Sigrad hefdu eina á,
Og vóru búnir hana ad slá,
Kolagref var hladinn há
Vid hana vildu steikja þá — I l.

3 Bádum þótti um þysid vænt,
Þá var nótt yfir haudrid grænt,
Og teldu fram vid funann kiænt.
Hver fleiri hefdi saudum rænt — I l.

4 Höf soo tal med þreinan sann
Og hellt sig vera afreksmann
Biörn, þar uppá fyrri fann,
Fullvel kunni hann reikning þann — I l.

5 "Níu hef eg rollur riád
Og reint vid þær á sliettri lád
Eingin var svo offsabrád
Ad ey giæti eg á fæti nád — s l."
6 Hann med sanni hætti þar
Og hèllt af sèr sem líklegt var,
Ecki þótti þetta par
Þórdi; og gaf honum aptur svar — s l.
7 "Atián hef eg med unda skód
Ærnar fært á heliar slód
Og nítiándu sem nú er á glód
Vid nádum bádir ad vekia blód" — s l.
8 "Þad er ad auki Þórdur minn"
Því nam ansa Biørn um sinn
"Lambarusl og skorpin skinn
Eg skrifa ecki í reikníngiun — s l."
9 Þessa vondu þióf[a]skrá
Þegnar meiga heyra og siá,
Oluckann sú yfir þeim lá
Ad einhvør siód og hlýddi á
Í leyni.



## Qvedid vid Hund.

Létt er þeim sem lausir flacka,
Lika er þér þad kindin blacka!
Svo qved eg vid seppann minn;
Vertú fimur ad flíñga á racka
Fádú þer ávallt nóg ad smacka
Svipgódur ertu svikarinn þinn!

## Valldi og Gudrún í Vallanesi.

Gunna þad verk vann
Er Valdi beid af giald;
Snerist í hanns hár
Hann skrækti, snældann;
Lockurinn liós hieck
Leingi á snøru ullstreings,
Pillturinn um hár héllt,
Og happ sagdi er afslapp.

## Hornafiardar Messugiord *).

Ostátúngurinn innti frá
Ad Ást í nockru sinni:
Þá hóf eg rædu Horni á,
Sú er í minni
Sú er í manna minni.

1 Hornfyrdíngiun hugd' eg finna,
Hitta kransinn frænda minna,
Sudur um land mér leid ad kynna
Lét mér ferdateltid þá,
Hóf eg rædu Horni á;
Þetta var mín þrauta vinna
Ad þeysa til merinni
Sú er í minni, sú er í manna minni.
2 A Lónsheidi sú lífud fála
Lék vid taumin trippis-gála,
Fallega giørdi fótum priála
Til Fiardar komst eg um qvøldid þá
H. e. r. H. á;
Hægramegin hirt í skála
Hvíldist í þver-sæuginni
S. e. í m. s. e. í m. m.

*) Kallaz einnig Hornfyrdínga qvædi.

3 Kámudust illa klædin góðu
Af kota eim og suðda móðu,
Mig í kríngum kappar stóðu
Kátlega mieg við þetta brá,
H. e. r. H. á;
Að mínu rúmi matuum hlóðu
Af miólk og fiskætunni
S. e. í m. s. e. í m. m.

4 Eg mátti ei opna munnin' hreina,
Að medtaka þá fæðu neina,
Ecki vildi á það reina
Mín ærugøfug tignin há,
H. e. r. H. á;
Mér sómir litt, ef satt skal greina,
Að seðjast kotfæðunni
S. e. í m. s. e. í m. m.

5 Minn bróðir sætur boð mér sendi
Beint ágiætur af sinni hendi,
Thrs sá mætur bóka bendir,
Að byria ræðu kórs í krá
H. e. r. H. á;
Því mælsku rætur mínar kéndi
Mest í barnæskunni
S. e. í m. s. e. í m. m.

6 Hosur mínar eg heimta náði
Hatt og stígviel þess eg gáði,

Ekki vard mer annad ad rádi
Enn út úr kofanum skautst eg þá
H. e. r. H. á
A minn besta búníng gliádi
Betr enn þad eg inni
S. e. í m. s. e. í m. m.

7 A laugardaginn ad lidnu nóni
Leit eg bæ hiá siáfarlóni,
Þar kom út einn digur dóni
Dulum vafinn allur grá
H. e. r. H. á
Eiktarstund hann á mig gónir
Adur enn mæla kynni
S. e. í m. s. e. í m. m.

8 Eingill drottinns ad eg væri
Ætladi þessi búrinn æri,
Ellegar sá sem øllum er hærri
Ogurlega vid þetta brá
H. e. r. H. á
J óvit féll med ánaud stærri
Undir hests klaufinni
S. e. í m. s. e. í m. m.

9 Sat eg heill í sødli mínum
Sæmdum vafinn á breidri dýnu,
Hesturinn dillar hofmanns blínu
Svo heyrdist inn í bæinn þá

H. e. r. H. á;
Seggir struku úr sætum sínum
Sem skiótast mig finni
S. e. í m. s. e. í m. m.

10 Sat eg framur, sæmdum prýddur,
Sómatamur, lucku skrýddur
Minn værdar hamur þarfur, þíddur
Þeli svölun velur há
H. e. r. H. á
Hrotta glaumur harki níddur
Hliómad' í ølstofunni
S. e. í m. s. e. í m. m.

11 Eg stie þá upp í stólinn háa
Med stígviel dønsk og hempu gráa,
Lagd' ég um hálsinn línid smáa
Leyptra tók af kraganum þá
H. e. r. H. á;
Kórmøtull og kápann bláa
Í kistu lá þar inni
S. e. í m. s. e. í m. m.

12 Textann hafd' eg í tveimur greinum
Mín túnga vafdi hann lærdóm hreinum,
Einginn var sá af ítrum sveinum
Ad eigi skyldi gljúpna þá
H. e. r. H. á
Ei var stans í ordum neinum

Ad eg mæla kynni
S. e. í m. s. e. í m. m.

13 Hlýrnirs miøllinn blær á móti,
Hlióda fiøll enn víknar griótid,
Flýa trøll þvi finnst ei bótin,
Fegrast giørdi rødullinn þá
H. e. r. H. á;
Eyddust gøll og íllsku rótinn
Opnadist grenjans inní
S. e. í m. s. e. í m. m.

14 Svannin grætur enn karlmenn klíngia
Krepptir á fætur stucku ad sýngia,
Einnar nætur eda ýngra
Omálinn tók leika þá
H. e. r. H. á;
Þannig giørd' eg rædu ad rínga
Rétt ad þessu sinni
S. e. í m. s. e. í m. m.

15 A hádegi eg rædu reyndi,
Reiknadist til sem margur greindi,
Orda spil eg allvel beindi
Ondverdt nón var komid þá
H. e. r. H. á;
Bænar ordinn best eg treindi
Ad blídri midaptaninni
S. e. í m. s. e. í m. m.

16 Oratsíann var merk í máta,
Margur vann af hiarta gráta,
Sérhvør mann réd syndir játa
Og sinna klækja ydrast þá
H. e. r. H. á;
Prócessíann og praktin káta
Med Pater noster linni
S. e. í m. s. e. í m. m.

17 Stie jeg suar úr stóli vídum,
Studdur var ad bádum sídum,
Skickin bar af skarti tídum
Skunda eg fyrir altarid há
H. e. r. H. á;
Ad grallaranum geck svo frídum
Giæddur sanngliftinni
S. e. í m. s. e. í m. m.

18 Enginn slíkur á Islandi
Eda þvílíkur mælsku andi
Hreist hefur slíku blídu blandi,
Brotna fyrri rødullinn má
Hóf eg ræðu Horni á.
Odurinn víkur enn efnid standi
Ut af Horn-Rædunni
Sú er í minni, sú er í manna minni.

## Um Indíafarid sem strandadi nálægt Skeidará í Ǫræfum.

Ugyrnd vondann vekur róg,
Varníng rekin grefur hvinn,
Allvída kénnst ecki í lóg
Orma fagur vefurinn;
Sá mun koma af sydra bóg
Er silkidúka krefur inn;
Margur díran dylur plóg
Um Desmers kécki vefur skinn,
Flestir hafa fyrdar nóg
Fælist hrafn og refurinn;
Ut er kominn um allann skóg
Indíaniski þefurinn.

---

## Um fagra stúlku.

Eina eg veit
Og er mér sú í minni'
Sérdeilis fegur silkihrund,
Um hyggiureit,

Þó hédanaf alldrei finni,
Hana eg ber um alla stund.
Allt er hún þetta — sem eg kann 'ad tiá —
Augnfögur, kinnrióð, munnfríð og smá
Sem skírasta gullið á brún og brá;
Brenna mætti hvör hana sá;
Alltíd lítst mér því á þá!

## Um ófrída stúlku.

Adra eg veit
Og er sú mér í minni
Sérdeilis leida silkihrund;
Í hyggiu reit
Þó hédanaf alldrei finni,
Hana eg ber um alla stund;
Allt er hún þetta sem eg kann að tiá
Augndöpur, gráföl, munnvíð og ská
Með svartasta hörundið, brún og brá,
Blöskra mætti þeim hana sá;
Alldrei lítst mér því á þá!

## Misjofn Gipting*).

Ef geira þollur gédstór
Giptir sig audsuipt,
Kemst hann þá í kokuna;
Verdi hún eins og hann hörd
Held eg qvikna báleld,
Spenni hann þessa sprokuna.
Vinnuhardur vís hann
Verdur um nætur á ferd,
Vill hún ecki vokuna;
Braudi vílar baugshlíd,
Borninn opt ef fá vorn
Skérda má þad skokuna.

## Hastverk á Giptingu**).

Í snæru bidill fiúks fór
Um fenntan snó og vatn rennt

*) Dubium conjugium S. B.
**) Præposterum conjugium S. B.

Qvidléttur til kaupanna,
Ottadist ad audsgátt
Undandreginn sér mundi
Hvatti hann þad til hlaupanna;
Ef fødur = kallinu forsiáll
Freſtar jái, hún létſt þá
Greida lag til laupanna,
Segiz ecki samþyck
Ad sinn heidursdagurinn
Standi og bídi staupanna!

---

## Hallur á Breidavadi.

1 Híngad kom med kálfa tvo
Kiænn ad velia um stadi
Einatt sagdi ho! ho! ho!
Hallur á Breidavadi.
2 J honum lestist enda bein
Og annar miadmarſvadi,
Reistist upp og héllt um hlein
Hallur á Breidavadi.
3 Øllum féllu ord og svør
Sem ad þeim færi skadi,

Pá hrapadi ofan úr hædstu skør
Hallur á Breidavadi.
4 Skiótt og hardt sem skyti kólf
Skall á nedri stadi —
Hefur nú reint hvad hart er gólf
Hallur á Breidavadi.

---

## Kiøtát.

---

Gunnarsson kiøt kann
Ad kocka vid sinn arnstock,
Baulu giørdi skiót skil,
Skar hana og ærnar;
A kræsingar er karl fús
Kuckadi út heitt juck,
Spratt hann upp frá spadskett
Og sprángadi út á húsgáng.

---

## Fiórar Tóbaks Dygdir.

---

1 Minn vin! eg gef
Þér mæta ráð í qvædi

Hafir þú qvef
Hóstann og þúnga mædi,
Tóbak er best,
Tóbak tóbak tóbak er best
Ad breiskia og saxa í nef.

2 Vilji þinn munn
Vessinn og slímid fylla,
Sú veiki er kunn
Og vill jøxlunum spilla.
Tóbak er best
Tóbak t. t. er best
Ad bíta og spýta um tønn.

3 Sigi þig á
Svídandi augnaklädi,
Svo veikist brá
Og verdi fátt ad rádi
Tóbak er best
Tóbak t. t. er best
Ad bera í augnakrá.

4 Skorti þig leik
Er skémtan auka kynni
Og hyggian veik
Hindraz af lángseminni;
Tóbak er best
Tóbak tóbak tóbak er best
Ad brenna og stúga í reik.

## Öl-Vísur.

1 Ölid í qvædum ýmist Biór
Ellegar Veig má heita,
Hreina Løgur, Horna-Siór,
Hrosti og Mylskann feita,
Gildi, Sumbl og veglig Byrt,
Vín og Miødur enn ei er stirdt
Af slíku bøgnum breita.
2 Frægdar menn þeir fylltu horn
Fordum uppá barma,
Víkia tekur venian forn
Þad vekur sumra harma —
Skálir og staupinn stikla nû
Stór og smá, enn þad er min trû
Ei þurfi af þorsta ad jarma.
3 Skeinkiarar þá skapa af lyst
Skúminu eins og rióma
Opt þad fælir vitid úr vist
Byrtinn leggst á góma;
Í flestu vada firdar krap
Fullhitnadir af dryckiuskap
Og deila ei sind fra sóma.
4 Þegar í kolli ølid er
Ypt er leyndarmálum,
Þad sem efa ódruckner

Er ørugg vissa í skálum;
Verjulaus í vopnaklíd
Verdur fús og byriar stríd,
Enn skrídur á skónum hálum.
5 Áhyggiunnar þrúnginn þrá
Prýtur í dryckjuranni,
Hálærdann vid hornalá
Heimskur trú' eg sig sanni;
Enn hver er sá sem staupinn stór
Stadfyllt upp med skúm og biór
Ei giørdu ad mælskumanni! —
6 Þad er vondt ad verda ær
Med vilia og líkiast svínum,
Því einginn veit hvørt aptur nær
Øllu vitinu sínu,
Og þó þad veitist víst til sanns
Í valdi reiknast einkis manns,
Þad er af gudi þínum.
7 Hann hefur gèfid þer hugarins megn
Og heilsuna utann qvilla,
Illt er ad hefiast honum í giegn
Og hvørutveggiu spilla;
Med øli giørir þú einatt þad
Í óhófinn er stediar ad
Og er þad vondsleg villa.
8 Styggir þú gud eda sturlar menn
Í staupa lángri dryckju,

Vendu þig á þá vína renn
Virda ad mýkia þyckju,
Enn fyrri þó vid fødur vorn Krist
Ad fridmælast med helgri lyst
Og skrída undir hanns skickju.
9 J hófi þó vier hreifum oss
Honum er styggdin eingi
Vid þann skíra skála foss
Er skémtir lýda meingi;
Þar er oss best ad bída vid
Bergia og súpa í herrans frid
Og stilla hans dýrar streingi.

---

## Brúdkaups-Reid Bænda.

1 Mørgum gledi magnar
Misdur og vín um géds rann',
Frábærlega fagnar
Flædi staupa hvør mann,
Gørpum þó ei gagnar
Greidt ad ydka dryck þann,
Því steypa koll kann.
2 Margan bragna bleckir
Blátt i glasi vín sætt,

Hreysti líka hueckir
Þá hefur leingi góm vætt,
Hrióta dryckjuhveckir
Að hrunið sé ei bætt,
Leikur svo lið mætt.

3 Sumir spekt ei spilla
Spara ecki góð hót;
Vini fylgir villa,
Vel þeir henni stá mót
Fagran selskap fylla
Fremia saung af geðs rót,
Vinnur þeim vín bót.

4 Verdur sagann venda
Vildis-mønnum burt frá
Búrunum að benda,
Best er því af óm skrá
Hvar þeir kunna að henda
Hafa kønnur loft á
Ølkiætin eykst þá.

5 Þá boðnir verða búrar
Brullaups til með virdíng,
Hrigðar skérdast skúrar
Skøll heyrast af málsbíng,
Dreingium styttast dúrar,
Dansa alla nótt kring
Hlackandi hofs þíng.

6 Búrinn harla blídur
Birtir sinni frú þá:
"Ecki nema hann bídur
J brúdkaup ockur, há! há!"
Leikur bœar lydur
Leggiandi sér hrygd frá
A eintölum opt stá.

7 Hann kallar á kéllu sína
Kvakandi med blídlát:
"Láttu leppa mína
Lagast nú med gott mát,
Eg skal þér skiædin syna
Skafdú þveingi hrund kát!
Svo aukist nú allt stát."

8 Hún þá honum i hliódi
Herma giörir eitt sinn:
"Lydurinn um had ljödi
Lítt se kraginn þurr þinn."
Madurinn fylliz módi,
Meina eg farinn glauminn
Ef krúsast ei kraginn.

9 Adur enn allt um þrotni
Eitt hvad verdur til siá,
Svo brúdkaupsferd ei brotni
Bregd þú honum ón á,
Þó risni hann og rotni

Rida skal þó med sá,
Um hálsin stíft stá.
10 Skó af ledurs leingium
Láta þeir á fótinn
Og svo eltum þveingium
Uppá vesta leggiun,
Þá er driúgt í dreingium
Dubbadir um búkinn
Kalla kragann sinn.
11 Sínar buxur sídu
Sídan klædast þeir í,
Vedva skiólinn vídu
Volsa kríngum þá því,
Og med tali tídu
Tiá svo opt um þann bý
Sem veitslan er veitt í.
12 Í strimpu stækrar lútar
Styrda limu þvo þeir,
Kámugir verda klútar,
Qvolid þerra og leir,
Kátir kióla-bútar
Klæda nenna sig meir
Svo friósi ei freyr.
13 Lokssins kragann láta
Liggia hálsinn um kríng,
Fer þá mest í máta
Þo móins hafi ei bíng,

Kirtla-reinin láta
Krúsad hefur þad þing
O! hvílík art sling!

14 Sødul skorpin sídan
Setia giardafil á
Kátir missa qvídan
Kalla bródir! hvørn þá;
Nád er oss ad rída,
Reckar ansa:. ó ja!
Náttstadinn nú sá.

15 Upp í ístad stíga
AErid stirdir hest vid,
Sødull vill þá síga
Sem hálfgyrdtur á hlid,
Waskir menn til víga
Vesta reipi um qvid;
Brestur ei buslid.

16 Stertin samann streingia
Staula sødul þá i,
Aptur á rump sig reingia
Rása svo um heimsby,
Keiri hátt uppheingia
Hestur ei kénnir á því,
Þá nátta þeir frí.

17 Ut á eintal spretta,
Og sín taka ráð þá

Hvørnig hegdan rétta
Hafa eiga og málskrá,
Sídann lúa létta
Løgin oss og rúm fá
Hefst þá upp hvarmsbrá.

18 Enn ad brugdnum blundi
Bordin undir gá þeir,
Sóa horna sundi
Siest þá ecki hrigd meir,
Hvør ad sinum hundi
Hyggia náir stáls freir,
Hvørt ecki hann deyr.

19 Fetta brýr og slugur
Frodar líka kamp þá,
Hvør med státi stingur
Stælta hnefa bord á,
Einn med ødrum syngur
Audra=rímur og stef há.
Er Márin=minni fá.

20 Brenn rímur baula,
Buldra af frægdum Rollants,
Um Grobbian líka gaula
Og gédfelld einnig løg hanns;
Brands svo mola maula
Medan gjørist vínstans
Hópurinn herians.

21 Missa módir ecka
Med þad horfa staup í,
Skégg og kampin skékkja
Skiótt og spyria ad því:
Hvørium hellst skal drecka
Heilla-bródir! til frí?
Mér seig af máls bý!

22 Mest þegar magnast blídann
Mætann taka þá síd,
"Med leyfi" segia sídann
"Sitji þér i guds frid!"
Kátir missa qvídann
Ur kampi síúga ølid,
Bendast svo bord vid.

23 Þá vill biórinn bólgna
Buxna slitnar sterkt par
Og kiærleikurinn kólna,
Kritur eykst þá óspar;
Siá má dreingi fólgna,
Sviptast bordum stólpar;
Rífast svo rustar.

24 Uppad efstu skífum
Augum gióta tídt þá,
Ef vænleik siá á vífum
Vestingar á brióst slá,
Sticki hampa og hnífum

Hafa ei ødru géd á,
Bíta svo bein smá.
25 Enn þó sidsemd siái
Sæmdarmanna med skart,
Henni held eg ei nái
Hafa ecki á því art;
Dreingir væla í dái,
Dignar kraga þel svart
Af ølrymslu óvart.
26 Allt hefur enda um sídir
Ysirlæti og heims gnótt,
Brygdular brudkaupstídir
Búrum lída frá skiótt,
Ad lidnu hófi lídir
Látast vilia heim sliótt,
Dreckur á hest drótt.
27 Kapla samann keira
Kátir burt frá þeim stad,
Litt yfir øli ejra
Ofanum kragann fer þad;
Af seggium segist fleira,
Sækia þá bæ ad,
Allkátir í hlad.
28 Brúdurin bídur úti,
Þá bóndamennid heim fer,
Hæversk hampar klúti
Heldur fyri nef sér,

Hann trú' eg stirdur stúti
Stafi alla og gólf ber
Vitlaus sem von er.
29 Qvendid kiætist varla
Þá kraga rýu sér haus,
Giörir á gridku kalla
Glósar sídann med skans:
Hann fór med sidúna alla,
Fallegt smídid kragans
Þótti þó þing manns.
30 Giördann skada ad gráta
Grundir segia vondt sé,
Margir laungum láta
Af litlu efni vænt fé,
Panninn þær í máta
Pennann geymdu í hlie
Kámugann kannské!
31 Hætti harma snaki
Þær heita kraga umbót;
Einnig ordalaki
Odurinn hver um málsrót,
Einginn ad sér taki
Orda kíminn brags hót
Sem festa hér fót.

---

## Gudmundur Snidkari.

1 Svendur hér um Hafnar stræti,
Heflar tídt med dryckjulæti,
a) Glsum velltir og glottir hátt;
Késlum losadi meyu mætri
Mat svo tídum hiá henni æti,
Svíkur þó seimagátt.
2 Einatt hyrist inn hiá Jóni
Endanum snyr ad kakalóni
Víkur sér uppá vinstri hlid;
Tappara frá eg tídum þioni,
Tekur krús med háum sóni;
Skrátóma skilst hann vid.
3 Ymugustur er oss á kalli,
Af því honum sá fylgir galli
Ad meistari endist einginn hans;
Urdu þrír fyrir þessu svalli,
Því trú' eg hann um steckinn lalli,
Nænur á nautadans.
4 Eitt sinn komst hann í kreppu eina
Af kopardal er féck hiá Steina,
Hinn helgi Blasius héllt á braut;
Stímadi nóg vid stadarinns sveina

---

a) Glósum byltis.

Stundir tvær og þar til eina
Sigur um sídir þraut b).
5 Sídann drifhvítt segl upp=þandi
Setti kúrs ad Islandi
Med sér hafdi misl og braud;
Sneckju botn fyri Backa=sandi
Braut c) med hæl, svo vard ad grandi
Kaupmanna kiærstum aud.
6 Halurinn þessi heflalærdi
Heim á Stólinn brotinn færdi,
Rickti stáli raungu frá;
Arinn tólf sig á því nærdi,
Eikitrè med járnum særdi
Strikadi stór og smá.
7 Helgann kross og herrans módur
Hió í trè sem greinir ódur
Postula 12 og Pál þar hiá,
Pílstarvotta glæstann gródur;
Giördi stólnum mestann hródr
Svo rustum í brúnir brá.

b) hlaut S. c) vid S.

## Um Kolbein Dverg
Sýsslumanni Jóni Þorlákssyni tilskrifad.

1 Kominn er Kolbeinn Dvergur
Kufsa málinn í,
Ad ei sieu úr honum ergiur
Eru til rekinn ný;
Fíkladi faldagná
Fimtugur var hann þá
Tuttugu vetra taldist sliód
Er tók hann bátinn á;
Dávænt dverga smídi
Drósar arminn prýdi!

2 Er hann álna tveggia
Allt eins digur og hár,
Snotur og snúinn til leggia
Snart af hærum grár;
Flest þó virdist veitt
Vanta sýnist eitt,
Ad skéggid ecki á nablann nær
Nógu lángt og breidt;
Þykir mér þrautinn mesta
Þad nam á ad bresta.

3 Fordum féll í ísa
Fliots á midium ál,

Þad nam hann ad hýsa
Handar undir skál;
Þandi út stíbla þá,
Þeinkir sig ad ná
Ofan til botns enn undir var
Attrædt diúp ad siá;
Því er harka í honum
Og hugur eptir vonum.

4 Fleira er frá ad greina
Ferdum þessa manns,
Tíminn tekur ad meina
Ad tína rannir hans.
Med svartan silkiklút
Ef segia vildi hann út
Æfi søguna alla sín
Einhvør gleimdi sút;
Þó er nú erindid annad
Efri bygd ad kanna.

5 Ef kynni hann qvittun fánga
Um króga smídid sitt
Og greidt þad vildi gánga
Gédinu yrdi fridt;
Um bevísingarblad
Bidur hann uppá þad,
Eg legg þar til ordinn mín
Eins og þegninn bad.

Giörir svo gamanid detta
Grætskulaust er þetta!

## Sigurdur Ganti *).

1 Sigurdur kémbir sitt hár
Þó sie hann næsta óklár,
Kámleitur, qvidsár,
Kann ei vitia síns fiár;
Augunn vellta um brár
Opin sem pallskiár
Drińgum dumpar í slár
Enn dansinn a) verdur ofhár.
2 Hefur leingi haft
Háqvæda róms kraft,
Gaul er gørnum skapt
Géfur aldrei þad tapt;
Strýkur kamp óknappt,
Kiøt vill og flot haft,
Skiri sqvettir í kiapt
Svo skéllur upp um hvørn rapt.

---

*) Scurra S. B. a) Dansinn S.

3 Med vara fliótt flump
Fær, og fkéllir á gump,
Mør hunda, kistklump,
Klettið og braudstump,
Vekur fkrefa fkump
Skricki og fóta dump,
Aptur regir rump
Og raka lætur fér mump.

4 Opt kyngiandi qvad
Kríngfóladi og gólf trad,
Hafdi hár ftallad
Og hálfnumid fem bad,
Um fkafinn fkeggftad
Skein í tanna nad,
Þeir er fáu þad
Þar máttu brofa ad.

5 Lagdi af lánga qver
Sem leingft hafdi fyrir fér,
Af qvædum hyggiu hrer
Hellft af þvi tómt ber,
Geingur verr og ver
Þá vífur yrkia fer,
J férhvørri er
Aldrei nema: hér, hér!

6 Halda má hann þriót
Hrauftann fem reidfkiót,

Géldur greida á mót
Gicks perinn osliót;
Marga sníkir á snót,
Þær snepsast vid þau hót;
Leggur land undir fót
Þær láta hann heita afiót!

---

## Harmagrátur Narfa.

1 Þannig Narfi tæpur í trú
Talar hinn orda-snarpi:
Eineygdur er ordinn nú
Eldis hesturinn jarpi.
2 Angrid vefur mig vondt af því,
Og vætir siónar bauga,
Ad krummar hafa nú kroppad í
Klársins hægra auga.
3 Honum mun ei, þar held eg á,
Hiedann af vænt ad þeysa
Hlýt eg ad segia firdum frá
Folinn er ordinn reisa!
4 Hoppar um móa hrafna os
Hestinn lét eg traudur;

Adann dró hann nockud nøs
Nú er hann út af daudur.
Mér réd falla fákurinn
Fram úr øllum máta;
Þar fór allur audur minn —
Ecki skal eg hann gráta!

## Um Vedrátt.

Landnordur lund herdir,
Leid viku heidríkia,
Skárekast sky vøkur,
Skall vindur fialltindum;
Af Hetti drif duttu
Dalagrá er alþáinn,
Ósa særdann ís herdir,
Ott þrekast góð eki.

## Um Hrafnagánginn.

Breida sig borginmódar
Bláfialladir um allar

Grundir, nes og granda
Grúfa sig ofan í þúfur;
Grafa med gildu nefi
Gormar þessir smá-orma,
Í seck þann nidur þeim seckva
Sialdann fyllist eda aldrei.

## Um Þorstein Mat.

1 Það er nú bert í þessum skort
Þorsteinn Matur lifad gat,
Ut þó herdtist ydra port
Ecki latur tæmdi fat.
2 Fann á palli flautadall
Flatur lá enn ecki sat,
Hristi kallinn heilastall
Haturlaust vid grautarfat.
3 Minnugur um matinn sinn
Matar-kogni einatt sat
Hörgángsskinn og höfudkinn
Hvatur lét í tannagat.
4 Tugdi smátt enn kyngdi kátt
Knaturlaust var tanna at,
Þá slét hátt í góma gátt
Gat eg slíks um Þorstein Mat!

## Vid Tóu

er eigi veiddist fyrr enn med|eitrudu agni.

Eitrid á ad eta
Oskammfeilinn tóa
Öllum uppúr polli
J hværd reynd ad flærdum;
Hvergi komist hin karga
Fra kletta vélum settu,
Lánghali lymsku slánginn
Liggi þar daud á hriggin!

## Narfi veiddi tóu í boga.

Ná feck Narfi tóu
Nýtur í bogan|hvíta,'
Fuglhrød føst á nøglum
Fëll og nádi ei elli;
Keingbeigd lá af kýngium
Kiálkabrotinn skálkur,
Dratthali daglángt hittist
Daudur, er vann á saudum.

## Grafid Spónskapt.

1 Fínt er ad mála, slétta hreint
Flíngurverk á saudhyrníng,
Brýnt ské stál og rétt til reint,
Ríngur merkist allt um kríng.
2 Bora skapt enn bera al,
Beittann inní fagrann hnút,
Skora hast enn skéra sal,
Skreittann vinna slóginn út.
3 Fín er ordinn freidinn nú,
Flúrud skiær og úrud þél,
Skín á bordi skeidinn sú
Skúrud glær sem kúriel.
4 Letri siprud leisir reck
Létt í hønd og plagar skiód,
Tetri slípud sleifinn géck,
Sléttu-bøndud gagara-ljód.

---

## Biarni á Eydi.

Biarna bærin gódi
Byggiaz tekur nú,

Inn' eg það í ódi
Með eina er hann þar kú;
Fyrir brúdi og barnid eitt
Ver hann ennid sveitt;
Herlegur þessi húsabær
Heitir: Ecki neitt,
Hann hefur af birki berru
Bygdu tré fyrir sperru.

## Páll og Reka.

1 Sá eg vid dyrnar systkyn þørf
Er seint um matinn breka,
Pecktar hjúinn hent í størf
Heita Páll og Reka.
2 Henni saurinn hrín opt á
Enn honum er grjót ad meini,
Hún vill þvott og hreinsun fá
Enn hann fægist á steini.

## Jón Stáfur giptiz Maungu.

1 Nú vill taka fljód í fáng
Ferda slisinn hrói

Kalladur eptir krabbagáng
Køglaſkértur N ó i.
2 M a u n g n ſér til konu kaus
Um kollinn var þá úſinn,
Vatnsfeldur og fingralaus
Faſtnadi og rétti ſtúſinn
3 Tvs hundrud nam telia ſér
Tvíſaungs giæddur hliódum
Qvikſiár þeſs ſem óvært er
Og einatt ferſt á glódum.
4 Henni er ſé til helmings fátt
Hverfur og ſieſt i ſkyndi,
Stygglegt miøg og ſtøckur hátt
Stødvar hún þad med vindi.
5 Tilgiøf hauns var tekinn af aud
Og talid allt í mála —
Ei hefur enn þá ſnótin ſnaud
Snúid ad runni ſtála.

## Unglings Skemtun*).

1 Ber eg mig enn ad bagla vísur beins á
ſpiald
Ydka pár og pennahald.

*) "Þetta hefur ſkáldid qvedid úngr" B.

2 Einatt virdist ólaung stund sé úti hlýtt,
Ef þá ber til nockud nítt.
3 Abyggiann er uppá hól ad elta børn,
Þá er hér ein á túni tiørn.
4 Hún er brædd med hála ís og harla breid,
Gott er um hana ad hleypa á skeid!
5 Eg fann líka afbragds skast um eitt=hvørt
sinn
J austanverdri Kroß hóls kinn.
6 Par hef eg laungum leikid gladt og lýdur=
inn smár,
Gamanid slíkt í gédinu stár.
7 Par nam siølinn skakast skiótt og skrickiast
vel,
Svo loptadi undir allann stél.
8 Þá er leikurinn eptir einn sem af hó ber,
Pad er stóri stíginn hér.
9 Hafinn er sá á háann gard, eg held þad
lýst,
Jafnvægur sem verdur fyrst.
10 Sinn á enda setst þá hvør enn sígur brátt
Annar nidur enn hinn ser hátt.
11 Nær sem þessi festir fætur foldu á
Þá er med himnum hinn ad siá.
12 J einu róa átta børn sem er til von,
Þá kemur Biarni Þorsteinsson.

13 Hálf-fimtugur hartnær ordinn hærugrár,
Sødla smidur og hugvitshár.
14 Gagn er bædi og gaman ad vøskum geir-arud,
Hann heilsar og segir: "Hér sé Gud!"
15 Elli kastar, aptur barn, og upp til vor
Giægist, brosir, greidir spor.
16 Hefst í stafn og hýdir á snarpann ródrar ríng
A þessum trausta teinahríng.
17 Er þá mesta ódagánginn eins ad slá
Og skip er stendur stefnum á.
18 Þegar geingur á ymsum endum ódt og nett
Þá er kértan ridinn rétt.
19 Hristíng fóta, handagáng og hørkunis
Enn ymsir detta útbyrdis.
20 Skiptapana traudt hér varla telia má,
Þeir falla svo opt uppá.
21 Þessi leikur er lætur best þá linnum vér;
Leidist flest hvad leingi er.
22 Undann má eg ecki skilia í ódarkveik.
Grenjabít og blindingsleik.
23 Nú er kominn ønnur øld enn úti hitt
Er ádur gladdi gédid mitt.
24 Bækur ydka, blek ad giøra og bera sig ad
Línur rétt ad leggia á blad.

25 Enn eg veit að, eckert lánggiædt yrdi þó
Ef þess á milli ei feingi fró.
26 Mun eg því eiga ødru=hvørju að ødlast
leik,
Hér vid hreßist hyggiann veik.
27 Það skal bera, er breitast kann ei,
bragna hvør;
Hætti eg nú vid soddann svør.

---

Skáldid lætur smída Liósapønnu; hún reynist ónýt; Eldakérlinginn reidiz.

---

1 I Vallanesi vilia ei liósinn dafna!
Skørin kafna — kolur hafna
Qveikia log um vøku tíd;
Bágt er stundum bál í eitt ad safna,
Kolu drafna — járnin jafna
Jeg sá aldrei verra smíd!
Seggur snar — sendur var,
A sínum herdum kolinn bar,
Frægdar par! yfir frosin mar,
Að flytia stál í hamra hríd.
2 Eina Pønnu áttu tveir ad smída,
Ecki bída — láta líða

Leingi undan þetta verk;
Með hamra slætti sleggiurnar á ríða
Sudann stríða — vænar víða
Vodir sveið og smidiu serk.
Dæstir slá — um daga þriá
Og dumpa þetta járnið á,
Margur frá eg blundi brá
Enn hún vard ei kolann sterk.
3 Imba stöckur upp til handa og fóta
Giörir að hóta — Byrni og blóta
Ef hún verdr kolann ei;
Einatt giörir í öskustónni róta;
Myrkrið lióta millum snóta
Mælgi vekur í þagnar þey;
Hún vinnur smátt — enn hrýtur hátt
Hriglan eykur varaslátt,
Tþnir mátt — enn tóið grátt
Tvístrast út á ríngul-rey.

---

## Skálldið spyr hvörninn úti sé? — svarar sér siálfur.

---

Hvað blæs nú? hríð geysar;
Hví dignar? ský rigna;

Pad er Pockabót.
Hvørt frystir? Hart litst mér;
Hvadann gustar? ad austan
Villist vindaról;
Mun hláka? meinsiúk er;
Má rída? í há-hlídum;
Par mun fønn vid fót.
Hvørsu vegnar? hross svigna;
Hvenær skánar? Þegar hlánar
Hliódnar hrigdinn liót.

## Kolbeinn á Hvammshyl.

1 Koli býr vid Hvammshyl
Hefur mikid a) krókuef
Bogadregid, legglágur,
Læra þéttur, augnskiær,
Hálsstuttur, hausbrattur,
Hrúti líkast sér út,
En hnotvarinn, hýrleit
Og hvelqvidud Rachel.

a) Kórnef S.

2 Slátur komu fram feit
Fyllaz átti kétill,
Vatn sótti í vídt fliót
Vinnu-taus og dró inn,
Andhrímnir úr blund
Eldinn vakti um dimmt qveld,
Karskur bar Koli faust
Enn Qvidfinna tók vid.

---

## Dagsláttarmenn.

Aldrei sá eg hann Odd á grundu
Einu sinni hræra ljá,
A hann horfd' eg eiktar stundu
Ecki var hann þó ad slá,
Hinir lítt vid haginn undu
Hýmdi Stari enn Thyri lá.

---

## Gripir fella Sætia).

Nú er ei hægt ad herda dug
Og hyrda slegna jørdu,

a) Um Jón á Víkingsstødum S.

Allt er komid á ferd og flug
Fákar og nautinn hørdu;
Bágt á sá sem býr,
b) Hiálmars ecki syrgir son
Þó sátur felli kýr,
Þadann er jafnan víkings von
Sem víkingurinn býr.

---

## Skáldid bindr nafn sitt.

Rødullinn hvatti Baldurs bródur ad
bríota vakir,
Frændur stódu í brandabraki
Brádheitt sumarid hreifdi taki.

---

## Madur átti barn vid
stelpu; — var hyddur.

Yfir í Túngu audspaung
Vid hngismanni kiákíng

b) Hávards S.

Græddi væn í vetur;
Bædi voru snøggsnaud,
Snar ad þegna kom þar
Sá er málinn metur;
Honum innti ær fantr
Ad sér hefdi keypt þad
Silki-tródutetur;
Fyrir rausid séck gaur
Fimm høgg og þau grimm;
Skyldi barinn betur!

---

Til
Þorsteins Magnussonar,
er Skáldid misti mann í skák.

Mæli eg um og mæl' eg á
Ad menn hanns Steina falli í strá,
Honum hrísi glettann grá!
Gési í einu tvo og þriá!
Gamla hrapi fiørinu frá,
Fæcki um reita pedinn smá,
Falli þannig fræda skrá
Fái hann mátinn lág og há!

## Vitnisburdur fátæks manns.

Meinleysis madur,
Mátulega gladur,
Idinn, óstadur,
Enn ecki næsta hradur;
Allt fordast sladur
Fiolyrdi og smiadur
Enn illa álnadur.

## S t ö k u r.

1 Vallt hiá meyum verdur stundum vilia
glisid,
Um H i a l t a s o n sem hreppti slisid
Heyri þér nú rædu qvisid!
2 Vatna yfir um vidan ós,
Veik þinga lestin
Enn H i a l t a s o n um heilagt ljós
Huxadi ei né prestin;
Seggurinn lá hiá svinnri drós
Og svaf af sér hestin,

Er þad skrift en ecki hrós
Allir høfum vér brestin.

## Tóbaks-last.

Trøll øll í Thýs høll
Taki nú þrakid, tóbakid!
Nýt íta øll sveit
Ælir og svælir þá brælu.
Pipu grípa súrt saup
Siúga, kúga sig biúga;
Nasir qvasa nóg qvás,
Nudda vid sudda af rudda.
Reykur stórum strýkur,
Strax af munni fýkur,
Soddann ædi — sælu giædi
Segir margur ríkur;
Leikmenn, presta og pikur
Púkinn med því svíkur.

## Asmundur á Strønd
skilar heim gémlíng.

Asmundur á Strønd
Ut híngad gémlíng
Hrekia nádi horstúkann,
Hvada fódur var þad?
Dó hann eptir daga þriá
J dúsinni vid lambhús,
Láta vill þó ei úti
Annan saudin fyri þann.

## Vinnukona í Vallanesi
bidur húskarl ad marka saud sinn.

1 Þorngrund mælti þar er hún sat
Þeck vid lundinn geira:
Hamarskoru og gloppugat
Giørdu í hægra eyra!
2 Hamarinn mér í greipar géck
Þad giæfu=markid sína,
Eitt eg gat ad erfdum féck
Og allar systur mínar.

3 Mér er ekki ad missa tamt
Þó margra kindur deyi,
Svo er mitt gatid giæfusamt
Því grandar refurinn eigi.

# S t a k a.

Oddur og Kristín klóra
A kálfskinns þunna bióra,
Med brakid, busl og óra
Bøgla stafina fióra,
A, og B med opid C
Einninn D id stóra,
Þá kemur E id F og G
Og ad því brosir hún Þóra.

Qvedid yfir haug Ingólfs landnáma-mannns, ad skipun biskups Brynjólfs, medan hinir adrir þénararnir hlódu vordu yfir haugnum.

Stód af steindu smídi
Stadur fornmanns hladinn;

Hlóðu að herrans boði
Heiðiteikn yfir leiði;
Haugur var hár og fagur
Hrundinn saman á grundu,
Enn draugur dimmur og magur
Drundi í biørgum undir.

---

Um ófæra á að morgni, sem fær var qvøldinu áður, enn biskup' Brynjólfur vildi eigi géfa prestum sínum leyfi yfir að fara, vegna yfirstandandi presta-stefnu réttar.

Ainn er ófær,
Otídindin frábær,
Episcopus ófær
Eingum sleppti í giær;
Þó var áinn þá fær
Þurrar vætti ei hundsklær—
Olgir nú sem einn sær
Aldrei það mein grær.

---

## Um ær dýrbitnar tvær og dauda eina.

Gráhnífla er geinginn af
Eg gét hana hvergi litid;
Ærnar tølta tvær vid staf
Hún tóa hefur þær bitid.

## Biarni Þorsteinsson komst í lífsháska.

Einusinni var bóndinn B i a r n',
Bedinn ad sækia ridgarn;
Þá var úti harda hiarn
Hann héllt á stad med ridgarn,
Af ánni ruddiz ísaqvarn
Od hann þá med ridgarn;
Undrum hreyttist aur og skarn
A hann B i a r n a og ridgarn.
Konann æpti og hanns barn
Sem afgeinginn fyrir ridgarn.
Fyrir handan heim komst þarn'
Heill B i a r n i og ridgarn;
Ei fékk hylurinn ágiarn
Af honum B i a r n a ridgarn.

## Þorleifs Hognasonar
### hestaleitar-hrakníngr.

---

Ad sækia hest fór halurinn svar
Í hægum vinda svølunum,
Ósladi skipid øldurnar
Upp ad rimar fiølunum;
Rúmlega feitur rýnir var
Og reidar líkur hvølunum,
Enn adrir héldu hann grei eda gar
Hiá gódhestanna vølunum.
Því er nu skrafad hér og hvar
Hann fór þrennum sølunum.
Sigurdur gaf þad giæsku svar
Hann geingi fram í dølunum,
Enn Þorleifur eckert fann hans far
Fram á qvíslar bølnum;
Snemma kom þá kappinn þar
Og kastadi af sér hiølunum,
Til ónýtis kom augna star
Í eingum fannar følunum;
Fialla ráfid reckinn skar
Og reyndi miøg í mølunum,
Vatnid kallt í kútnum bar
Med kátlegum raunatølunum,

Enn ábatadist þó ecki var
Utann hann vard í qvølunum.
Svo er nú víxlad mørgum mar
Ad minnst er hast í skiølunum,
Því sumra raup og sagnirnar
Siást med mørgum hølunum.

---

## Fyrsta Stafagiørd Olafs Stephánssonar.

Er eg nú vid þad ílla O
Af því verdur þreingra,
Eg hefi skrifad A B C
Aldrei kémst eg leingra.
E þó hafi eg aktad smærst
F id stendur þessu næst,
G er ofann lukt og læst
Lítst mér ei á H id stærst — a. k. e. l.
J id meina eg óvandt sé
Ei má K id draga í hlie,
L M N id O og P
Ætla'g komi mér á hnie — a. k. e. l.
Q id set eg á kiálkann hress,
Krókótt verdur R og S,

J T id fellur kúka kless
Kémur mér U í vandann sess — a. k. e. l.
X Y Z Æ og Þ
Og aptan vid þad titilkorn,
Rétt er stafa-rófann forn,
Rakinn á fremsta kiálkahorn;
Aldrei kémst eg leingra!

## Tóbaks ádeila.

1 Lædst hefur inn í landid hrak
Lýdir kalla þad tóbak,
Híngad þessa ragur rak
Reikiar svælu hinn armi;
Drusslega margur dánumann,
Dreckur í sig þreckinn þann,
An hanns vera ecki kann
J slinu þó hann svarmi;
Af reyknum falla kiálkakér
Og koma honum út um nasir sér
Þeim illa ódaunsfarmi!
2 Nú er þessi ramma rót
Reiknud fyrir heilsu bót,
Hvar einn kémur á mannamót

Má hann reykinn smacka;
Inn í landid uppá hest
Árlega sendir Jason West,
Margann gledur mann og prest
Meiga þeir honum þacka,
Hundrud sex af hreinum leir,
Hér med sylgir og nockud meir,
Pípur í einum packa.

---

## Hogni er sendur eptir bók og þósa.

---

1 Hef eg hann Lása á Hafralæk
Høgni! giørt ad prósa
Um þósa;
Fáir þú hann og færir mér
Fyrir þad þøck og gialdid þér
Skal leggia í lósa.
2 A bókinni liggur mikid mér,
Margsøld hefur hún giædi
Og qvædi;
Eg veit þú telur þad vandaburd,
Enn viljinn mýkir þann úrskurd
Og sónar sædi.

3 Heldur manstu Högni minn
Hvad þú átt ad géra
Og bera,
Ef mælir þú fyrir munni þér
Mærdar versinn hvar sem fer,
Þad verdur ad vera.
4 Fardu vel og færdu oss
Fréttir aptur bestu
Og mestu;
Rídtu um dag enn dorma um nátt
Drýgdu mærd og giør þér kátt
Um veldid vestur.

---

## Um Gialldvefnad.

Gialdvefir gánga
Enn garnhælar stánga
Hiá Gunnu og Settu.
Vid hleinar vánga
Hátt vefskøptinn spránga.
Og vindast í fliettu.
Meidmarnar mánga
Enn beinskeidar bánga
Um barmana þéttu
Klíd vefst í stránga

Enn kliáist út slánga
Med kappsmunum réttu.

## Hornfyrdinga Brúdkaupsreid.

Í Alptafyrdi a) var brúdkaup best
Vorin vóru þángad ølfaungin mest;
Þad spyrst um borg og by
Búrar fagna því
Enn opt verdur hliódt eptir gamanid.

1 På Hornfyrdingar heyrdu þad
Hver sína merina keyrdi í hlad
Mistu mein og sút,
Meljum køstudu út,
Hnepptu í buxur og um hálsinn klút,
Enn opt verdur hliódt eptir gamanid.
2 Istadalausir þeir ørkudu af stad
Ei var heldur volkinn hart speutur ad,
Hrossinn hnýttu í stert
Sem høfdu fyrri gért,
Þó toglódinn opt hafi taglid skért
Því o. v. h. e. g.

a) Hornafyrdi S.

3 Yfir Kolgrímu-vadid sveimud' á sund
Sérhvør í kiølltunni reiddi sinn hund,
Hittist hersing liót
Vid Hornafiardar fliót,
Af jórreiknum vard loptid sem svartasta
sót,
Enn opt v. h. e. g.
4 I nesinu hanns Biarna náttudu þeir
Nuddudu á eintølinn tveir og tveir,
Þeir kémbdu ei krúnu stall
Enn kreikudu uppá fiall,
Þar sást margur kríngskorinn kall
E. o. v. h. e. g.
5 Allir ridu eptir ølsinns þef,
Og upp í gøtuna settu sin nef;
Þeir feldu ei flasid þad
Fyrr enn á nefndum stad,
Orkudu leingi þar úti um hlad
E. o. v. h. e. g.
6 Enn hvør medan kom í Hornfiardar
reit
Hugdi hann aleydda þá nafnfrægu sveit
Því hvørgi húsinn féck
Hann nie matar smeck;
Allann svo hreppinn á enda géck
Því opt verdur hliódt eptir gamanid.

## Lúcidór og Krysillis
(útlagt úr dønsku).

1 Lúcidór sem hollri hjerd
Héllt á beit um sumarstund,
Sofna giørdi sætt á jørd
Sólinn brendi audarlund,
Því ei hvíldi næsta nein
Náturró hans augastein
Krysillis því olli ein.
2 Krysillis sú falda fríd,
Fiármeya sem blómi var
Og af mørgum í þann tíd
Yfrid lángt í frídleik bar:
Undireins, þar lidu létt
Lækirnir um eingid slétt,
Sína hiørd lét renna rétt.
3 Hún réd fullskiótt hyggia ad því
Hyrdirinn lá vært í blund,
Sá var frídur ásján í
Ad honum því læddist sprund;
Hló og þeinkti svo med sér;
Set eg nú í huga mér
Lítid vid hann hveckjast hér.
4 Hiá honum sá hreckiafrek
Hliódpípu, sem þar var løgd,

Uppá hværia hann alltíd lieck,
Ætlar nú ad vekia brøgd;
Hana þreif upp handamiód,
Hyrdirinn þar svaf í ró,
Blés í eyra hans og hló.

5 Lúcidór þá blundi brá,
Brúdur tók til hlaupa slíng,
Fliótur spratt hann fætur á,
Og fór ad horfa allt um kríng;
Qvendid leit og kalla vann:
Krysillis! fyrir hveckinn þann
Eitthvad færdu á minn sann!

6 Hana ellti og innti þá:
Arma dubbann! stattu vid
Þú skallt kossa fimtán fá
Fyrr enn endar gamanid —
Heir minn kiæri! hún þá tier:
Hvad er slíkt? ei má eg hér
J fridi vera fyri þér.

7 Krysillis lét siá á sér
Sem hún væri reid og þrá,
Lét þó merkia geira grér
Ad giarnann vildi hún kossinn fá
Létst því segia: ney! hvad? nú
Næsta litla þøck haf þú!
Eg man til slíks; mér til þess trú!

8 Fullkyst þegar fliódid var,
Fiárþyrdirinn mælti og þló:
Villtu svikul svo optar,
Svefninn banna mér og ró?
Oney! sagdi sætann stillt
Sofdu og liggdu þá þú villt a)
Enn aldrei frá þér verd eg villt.

---

## Heims Adeila.

1 Þessi øld er undarlig,
Allir gódir menn um sig
Ugga meiga ad mestu;
Illir taka yfirrád
Ad því hef eg um stundir gád
Ad þeim er fylgt í flestu.
2 Fer eg med efnid undarlegt:
Ef þér gyrniz nockud frekt
Manna fylgi ad fánga,
Þá skal hann ecki elska gud
Og ecki stunda hans heiløg bod
Heldur rækia hid ránga.

---

a) Hægt og mildt S.

3 Þíngheimurinn þýtur upp
Þegar hann sér Belzebub
Dýrkadur er af einum;
Adhyllast og elska hann
Einnig veria hvør sem kann
Bædi í liósi og leinum.

4 Þeir sem seilast adra á
Orga, deila, slínga, slá,
Stríúka, stela, ljúga
Og útlegdar vinna verk,
Vørninn er þeim nógu sterk
Hiá flestum manna múga.

5 Sá hinn gódi er giardafár,
Gisna má hann síd og ár,
Dyptar ad honum einginn;
Sem sú eyk fyrir utann trød'
Er eingann hefur børk né bløð
Og øll er af sér geinginn.

6 Mútann tekar máttar skref
Má hún þad rétta afláts bréf
Segiast verstu synda,
Þá hefur fiandinn skrifad skrá
Og sqvett forgylltum sandi á
Sem bædi augun blindar.

7 Hún réttlætir ránglátann,
Ránglætir hinn fróma mann,

Giörir svo greidt ad flækia;
Þeim hana tekur, talar hún í
Tekst þeim varla upp frá því
Réttdæmid ad rækia.
8 Því er nú ordid íllt í heim,
Ad einginn sinnir manni þeim,
Er giörir sinn gud ad skunda
Og breitir eptir bodum hans,
Brýtur ríkid andskotans;
Hann má fara til hunda!

---

## Jón Salómonsson.

1 Nú meiga eydar orma fróns
Ord og giördir vanda,
Kominn er híngad kordi Jóns
Er kuldi má afstanda.
2 Pambaskélfir þennann bar
Í þúngum vigra stormi
Þá Olafs her hinn vaski var
Vegin á lánga Ormi.

* * *

Nú fá mýsnar nauda kíf
Nín í einu missa líf,

Onsteinn frá eg þær allar pretti
Undir lágum fiala-kietti.
Sá sem bruggar soddann tión
Það er hann Jón!
* * *

Aldrei gyrnist gullsfold
Gaurinn Jón Salómon;
Þegar fætinn flióðs lítur
Flýr hann Jón Salómon;
Skyrtu gánga í gólf bert
Giørdi hann Jón Salómon,
Einn liggia vid vegg
Vill hann Jón Salómon.
Hingad kom á húsgang
Hrodinn Jón Salómon;
Driúgt úr tøsku tóbak
Tekur hann Jón Salómon.
Brennuvín í burt rann,
Brást ofs Jón Salómon;
Heitid mér hafdi kút
Hann Jón Salómon.
Hýding feck á stórstad
Staulinn Jón Salómon;
Af letinni þá þraut
Pold' hann Jón Salómon,
Húdinn øll vard hálfraud
Hrein hann Jón Salómon;

Á endanum varð ómynd
Öllum Jón Salómon!

## Skáldið qvað við Dætur sínar.

Vefur þessi vandofinn
Vekur lyst með þrem systrum,
Þær ríða við rønd áklæðis
Rósabeck í dagsliósi;
Mætast heinkur marglitar,
Mindud sporinn vel binda,
Þeim ægir, að auk sextíu
Ein er í stadnum hleina.

## Við Þóru Dóttur sína.

Fadirinn bar mín æsku ár
Innst í skauti sínu;
Geymi eg hans hin gráu hár,
Gott er í horni mínu,
Og gott er í horni mínu.

## Staka í Gamni.

Kom þú nú undir stúfinn strax
Og stattú hierna á hniánum,
Hiá triánum;
Af þér skal nú skeggid skéllt
Skorid eins og hrísid fellt
Og lagt med liánum.

## Vid son sinn Olaf.

Einn piltur ad hnie
Í blautann snió stie:
Os, Løgur, ár, Fé,
Ur, Reid, hanns Nafn sé!

## Um Oflátúng.

Eins og forinn feitur
Fénu ødru hiá

Stendur strembileitur
Stórri þúfu á,
Þegir og þykiz friáls,
Þetta kénnir briáls;
Rembilegur réttir upp
Róuna til háls,
Sprettir úr sporum med siáti
Og spardar af gravitate.
*　　*　　*

Kátlegur kúluvambi
Med kémbdu hnackadrambi
Allur stár á strambi,
Strútir ad á med lambi;
Lúinn á þessu þambi,
Því er ei von ad rambi
Né hreiki hanakambi.
Hentugur er honum skiambi.

---

## Viðvænings Skrift.

Oddur Jónsson er ad skrifa uppá
kiálka,
Því mun bagga beinsins hálka
Burt úr støfunum teigist álka.
*　　*　　*

Nú er komid nitt bein
Neri eg þad á slíp-stein,
Því skal línann løgd ein,
J liód set eg þá grein;
Stafanna rétt rein
Reiknast nú og vel hrein,
Hindrar ecki margt mein
Minn goda skriftein.

---

## Vísur er Skáldid gaf
### syni sínum ad skrifa systur sinni.

---

1 J fréttum allsátt
Er ad skrifa til þér:
Þín sitia systkyn
Samt vid heilsu og lífs skamt
Fyrir góda guds nád —
Gaungu-sóttinn hefur straung
Þorad mørgum þar, hér,
Þó ad binda helskó.
2 Eg sit vid saurliót
Sinni einu kalfskinn,
A ad skrifa upp þó
Ødru veist prent-blød,

Þá dettur þad í
Þríf eg fiødur og hníf,
Skér penna og skrifa stór
Skírann ord á pappír.
3 A geingur ei þó
Odum í hugarsjód
Ad tína, því tøf sein
Tídum slítur náms klíd;
Þar um vitni best ber
Biúg skrift og ódriúg,
Annad sinn ef eg kann
Endurbót skal gløggt kénd.
4 Þínar systur þráds=rein!
Þér heilsa med mér,
Þráheldinn Þorvaldur
Þar til leggur ordfar;
Fadir minn fann ód,
Fer sú listinn hiá mér;
Gudi sønnum sólsmid
Sel eg þig! Lif vel!

---

## Biarni á Biarnahúsum.

Þessi Biarna blettur
Býdur oss nógar settur,

Miklar skára sqvettur
Skélli og vara fettur,
Allur er óslèttur
Eins og steina klettur,
Nú er margur mettur
Og mátulega lèttur.
*　　*　　*
Þeir halda hann Biarni høggvi smátt,
Því honum vill ecki bíta —
Enn madurinn hefur múga-slátt
Svo mèr gèfur á ad líta.

## Jón á Víkingsstødum.

Víkingsstada vaskur Jón
Í Vallanesi slær,
Híngad kom hann nær um nón
Og nagadi um þúfur tvær,
Tíu marka trog med spón
Hann tæmdi af skirinu ær,
Innann skóf sem annad ljón,
Ecki komst eg nær,
Sá hinn døkkvi finda þión
Sem hèr var í giær.

## S i g u r b o r g.

Öskupoka upptók
Einn morgun Sigurborg,
Atta sëck uppsteitt
Einn morgun Sigurborg,
Ecki fyllti þá fræk
Forgéfins Sigurborg,
Því við dúsúnga dans
Dorgaði hún Sigurborg.

## Oddur fiósadreingur
tók snió af glugga.

Oddur stár einn á gaddi
Osvífinn jarlinn fiósa,
Skúfar burt skyha sífu
Skríngilegur með fíngrum;
Klórar í grind og glerið
Gullsálfur flórkálfa,
Hefnast skal honum ef rofnar
Hlemmur í ljóra skémmu.

## Saungurinn í Ulfstadakór.

1 Í Ulfstada kór
Upp komu hlióð stór,
Gísli þambar sem þiór
Enn Þorkéll verdur ofmiór,
Ut úr øllu fór
Eins og kálfur í flór
Hnútur hiørvaþór
Af hliómnum vard óror.
2 Øll vard íman laung
Eins og fuglabáung,
Greip í grallara saung
Gróa hlióða-svaung,
Lét upp góma gaung
Gunna í mannaþraung
Þá stód í staung
Enn stemmann øll vard skarnraung.
3 Hnútur um hardann laup
Hiellt og áframm kraup,
Hættar hveljur saup
Og heimti miólkur staup,
Nær þvi nidurdraup
Um nótugáng og hlaup,
Pad var chórala-kaup
Enn qvendid setti upp stórt raup.

## Vorvedrátt.

Góð veðrátta geingur
Giøri eg mér lióð af því,
Þetta er fagur feingur
Fiølga grøsinn ný;
Fiskur er kominn í fiørd
Færir mørgum vørd;
Kýrnar taka að trítla út
Troðjúgra er hiørð;
Sképnur allar skarta
Við skinið sólar biarta.

## Skáldsins seinasta vísa.

Við høfum leingi sveitst hér samann
silkilín!
Þú ert úng enn eg er gamall Eyvør mín!

## Skáktafl.

Jón leikur skást skák,
Skók hann af mér hvørn hrók,

Biskupinn feck rórask
Riddarinn og pedsnidd;
A Gemlu er komid gangsvíngl
Gádi hún ecki ad ná brá,
Köngurinn med forsáng
Feck mátid oflát.

## O l v i s a.

Brennuvíns bollar tríta
Bordid rétt um kríng;
Nú er ei edru ad hyta,
Er mín hendinn slíng
Ad bera staup ad munni mér,
Skola eg háls enn hyrdi ei grand
Hvad á eptir fer.

## Persónur sem afleysast áttu fyri barneign.

Arnfinnur og audargná —
Nú þykir mér kastast í kiecki!

Eru hér kominn gólfid á —
Aldradir eiga børn;
Miadmskackur er madurinn sá,
Marga trú' eg hann blecki;
Enn úngir giptast ecki,
Ungir qvongast ecki.

---

## Slátturinn í Rústinni.

Aska og Odinn siálfur
Er'í rústar tetri,
Slæmt er hana ad slá;
Safnadist haugurinn hálfur
Hellst á þessum vetri,
Er skémmir skarpann liá;
Ord vid hirta hritur því af Steina,
Hugferdinn kann hann síst ad leyna,
Kominn í liáinn skémmileg er nú skeina
Af skéliamolum, grióti og harki beina.

---

## Hús=smídi.

Ad reisa þessi þilhús,
Þilia í hólf og allt gólf

Vinnur sig ei siálft;
Skuli vera þídt þil
Þétt allt og vel sett,
Enn hvørki skakkt nie skiálft;
Fiøru þhýskann frábær
Flett hefur mig landsrétt
Svo séd mitt stendur striált;
Mín eru efni miøg klieu,
Midla eg því dræmt vid
Enn hagirnir vinna hálft.

---

## Nef = tóbak.

---

Eg læt ei lángt á milli
Ad leggia í nasir mínar
Tóbaks grasid gott,
Hnerrana hægt svo stilli,
Hafa þær nádir sínar,
Ef í þeim verdur vott;
Enn sú jurt sem eykur nefiuu farda,
Illskudaun og skófar tetrid harda,
Ætti ad berast undir toptar garda
Því øllu betri er mylsnann sauda sparda.

---

## Raup Einars.

Einar sagdi: eitt sinn vær
Attum mikid þamb
Fiórir geymdum fiórar ær
Enn fargadist þó lamb!

## Vísa ad vefa í band.

Frid, andar=aud,
Aud, daglegt braud,
Léd eingla lid,
Lid af sólar smid
J ferd og á,
A leid til og frá
Fái um sand og siá
Sá bandid á!

## Hexametrum.

Gud rádi því Láfi minn! hve nær þú
munt giøra góð vefs!

## Dreingur sem opt snikti í búrid.

Svendur minn
Geingur í búrid þrátt,
Ut og inn,
Einatt þó bíti smátt;
Potta glettu pattinn kann
Píkunum veita,
Grautinn patad gétur hann,
Vid glódina heita;
Kráku-skel
Brøndótta, breida
Fær sér vel
Froduna ad veida,
Sóma þiel
Þá mun tilreida,
Hann svo kunni henni ná;
:,: Fallega, fallega, fallega fer
Í fiósinu á stundum. :,:

## Hardindi.

Jøkulsdals bygdinn bleika,
Vilium stridum øøn Hlídinn,

Kríngvefd vötnum Túnga,
Veitug Utmanna Sveitinn,
Piódkunn þínginn Eyda,
Praung sund Skriddals grunda,
Vellur, Fliótsdalur, Fellinn,
Fullt er þad allt af sulti.

## Mýs urdu fyrir liá.

Í höggi einu hió eitt sinn
Hér á grundu vallar
Undan fiórum madur minn
Músum fætur allar.

Undir persónu bónda eins í Vallaness sókn er var gramur uppá þann sem átt hafdi barn vid dóttur hans, qvedid undir hans tón þá hann var ad citera löginn.

1 Kongsins fánga kall' eg einn mann
Pad er nú af því til,

Kann eg sættast ei vid hann,
Þad gyldir eitt og so mikid,
En þó komi til útstátur
Alþingismenn og prófastur
Med jalli
Plánetur og póstarnir allir.
2 Rétt minn vil eg rífann fá,
Þad er nú af því til,
Og rádspiøll full þar ofaná
Þad gyldir eitt og so mikid;
Eins og hljóda útstátur
Enn ecki so sem dœmir hvør
A palli,
Plánetur og póstarnir allir.
3 Minn hinn *) frómi leggur lid
Þad er nú af því til,
Límir hann sig vid mína hlid,
Þad gyldir eitt og svo mikid,
Ymsar kann hann útstátur
Þó í honum sé vondur kur
Med galli
Plánetur og póstarnir allir.
4 Eitt sinn vard eg mælskur miøg
Þad er nú af því til

---

*) o: Síra Stephán B. S.

Mín var gáfann ecki treg
Pad gyldir eitt og so mikid,
Aldrei þrutu útstátur,
Eins þær flutu og regnlækur
Ur fialli
Plánetur og póstarnir allir.
5 Nú er eg ordinn eptir mig
Pad er nú af því til,
Ad reid mælskann mér a slig
Pad gyldir eitt og so mikid;
Endast þannig utstátur,
Einars þagnar gamli bur
Og kallinn
Plánetur og póstarnir allir.

## Pétur Hiarta.

1 Veik Pétur sveinn
Ad vikings bygd *)
Og var til bæar
Bodinn med sóma;

*) ɔ: Víkingstodum.

Par var uppreistur
Af þilium dúka
Siálegur skutull
Og settar á vistir.
2 Þá patradi sig
Pétur Hiarta
Og yfir máltíd
Mælti þanninn:
"Nú furdar mig!
Nóg er framlátid!
Mér verdur ordfall
Og ecki ad vegi!"

---

## Rafn Jónsson á Ketilsstødum.

---

Nú vill ecki standa um stafn
Stødugann vin ad fánga
Þó allir beinist ad þér Rafn!
Undann skal eg gánga.

---

## Ögmundur reidist af þvi hann fèck ecki skattinn i tima.

Ögmundur er i fyrtum
Ecki fær hann skattinn
Teignum flŷr hann frá;
Hann hefur hægt og kyrt um
Hafi þad siálfur skrattinn,
Sem nennir hann neitt ad slá;
Høfdinu vingsar, høndum bædi og
stielnum,
Hradar hann sinni ferd upp eptir melnum,
Gaula allar garninar i belgnum,
Grettir hann sig, þad hefur hann lært af
selnum.

---

## Vid mann sem hindradi bókaydkun skáldsins med saung.

Sing þú ey meir um sinn!
Svo nægir Þorsteinn minn!
Linist þinn lodni kiaptur!
Láttu bókina aptur —

Mættir þú miklum sorgum
Mødrudals upp í borgum.

## Bergur littlæs.

Komid þad mikla umbod er
Allt upp í lófann þinn,
Rigtuglega því rita ber
Og reikna hvørt eitt sinn,
Þú kannt svo lítt ad lesa á qver
Og laga bókstafinn,
Þad er nú þad sem ad þér er
Elsku Bergurinn minn!

## Um einn af þénurum biskups Brinjolfs er hafdi druckid of mikid í visitatiuferd.

Ölinu fylgia óskøp slík
Allir verda ad svíni —

Segdu hann liggi í Sydri Vík
Seiddur af brennuvíni.

## Um affettann Kaupmann kalladann Skulda-Laurus.

Skulda Lári í líssins naud
Lofar ad gefa engelskt brand
Og siálfur vilji hann senda þad
Sigurdi uppad Ejólfsstad —
Því hafdi hann egi heima nema brossatad.

## Vid mann sem kom undir tialdskor skáldsins í kaupstad.

Snúptu á aptur Siggi minn!
Sætt er í þessum kúti,
Hálfur komstu híngad inn
Enn hálfur liggurdu úti.

## Um smidi sina.

Thómas er nú tekinn ad smída
Tálga kann hann birkid og þyda,
Arni er honum hiá
Hyggur lid ad liá,
Hann er ad rydia og stydia;
Betra er ad bánga enn bidia.

## Olafur Gudmundsson á Saudanesi.

Ránvísur rétt samann
Rádsvinnur nam spinna,
Hann er kn'yta kunni
Kiœn liód á norrœnu;
Kund eg greini Svendar
Gódmenntann og fródann
Olaf, hvør nú hefur
Heimgáng ad Saudtánga.

## Um Hund.

Situr hann Láfi og saxar gras
Svo gerd' hann á deginum,

Piggur Bocki þettta vas
Enn þad er nú ríd í þeyunum;
Só hann bædi í giær og cras
Þó giøri menn opt ad svey' þonum,
Illt séck Þura af þonum slas
Uppstøck hún med tegiunum,
A þenni vard svo fallegt fas
Sem fegursta kinn á meyunum,
Þad rann í þana þad reidibras
Hún rettist øll úr beigiunum;
Vóx vid þetta murr og mas
Mikid í hundagreyunum.

---

## Hvornig madur skuli haga sér í heiminum.

Allra best
Er þad satt eg meina,
Þad þefi eg i þeimi séd:
Fátt um flest,
Hafa þó þyggiu þreina
Hér med gladvært géd
Hvort luckann ber mót eda med; —

Mannkosti held eg heita
Hvörjum slíkt er lieð.

## Um það, hvörsu kiærleikurinn kólnar.

Rækt skír
Rénar nú í heimi,
Veröld veldur róg;
Trygð dír
Tapaz fyrir seimi,
Ei veit nær er nóg;
Nú flýr
Sú ræktar rótinn góð;
Karls á milli og qvinnu
Klýfst því ástar slóð

## Við son sinn.

Það veit eg Þorvaldur!
Þú ert næsta einfaldur,
Þinn bruggar barns aldur
Briálið og hátt sqvaldur,

Opt hleypur um hialdur
Alvotur, blákaldur;
Þó sæki mid mialdur
Mun þad eigi neinn galdur.

---

## Brúdkaupsvísur til Jorgen Kemm.

1 Sól skein yfir slá grænan
Sá eg sley, húsum dregid,
Vid land í lægis sundi
Leynaz beygdum skeini;
Lá svo vid taum trúann
Tiódradur hestur flóda
J Reidarfyrdi fiádum,
Fann eg þar hóp kaupmanna.
2 Spurd' eg þá stódu á stordu
Stýrendur af hlunnsdyri:
Hvada fregn ófródum
Færdu mer ródurs lærdir,
Ur Dana veldi vænu
Er vardi mig, Jsajardar
Festan a) armi ástar,
Ar fimm vid ment klára.

---

a) Sízlann B.

3 Fiøld trú eg frétta þyldi
Farmanna knár skari,
Þó mest um grand=geystann
Galdur, plágu aldar;
Nenni eg ei rítar=runna
Rædu í sónar flædi
Med gát giørvalla ad flytia
Svo Gylla bát ei fylli.

4 Skal eg þó eitt yfir ála
Odar med hug gódum
Setia á sunda otri
Suttúngs, er mèr flutu;
Þad: er hlads ad hlídi
Handseldur til landa
Jørgen Kemm kominn væri
Kaupslyngra foríngi.

5 Ad bløndudum beslu vindi
Blídur vid þey grídar
Christínu qvádu ad festa
Kaup=snilda bør vildi;
Þegar af ferdum frægur
Fielgudum ránar elgur
Tæki vid borg bleika,
Blund á Eyrar=Sundi.

6 Sakir þess ad vin=vikum
Vardi mig svolnis=garda

Týr, og trygda stóru
Trausti í Fiörðum austur,
Signi eg í mærdar megni
Men=frey og hríngs=eyu*)
Blessi þau, bid eg þessa,
Blídur gud fyrr og sídar!

## Gudmundur digri.

1 Gudmundur Crassus gódi vin
Geingur vid huicki þría,
Miøg þykiz lassus, magnar styn
Medann hann er ad slá,
Viribus cassus víls vid dyn
Vinnunni dettur frá,
Opt skreppur Bassus auds úr hlyn
Altari voru hiá.
2 Þá upphefst Tonus andlit grett
A honum margur sér;

*) Hér endar handarrit Prófasts Síra Þor-valdar Bødvarssonar.

Nauðúngar Sonus þúngt og þétt
Piáir manns heyrnar fér,
Skrúða Patronus skundar létt
Þá skriðliós sækia fer,
Kór=Diaconus kallaz rétt,
Kluckari líka er.
3 Velltandi Rotam hlióða hann
Hefur því stemmann lýst,
Saungs=Idiotam segi eg þann
Ur Samhlióðinu brýtst;
Alldregi Notam eina fann
Allt því í gaura snýst,
Kýs heldur Botam; klaustramann
Kallast vill allra síst.
4 Gamall Parochus giørir skil
Giptumálunum á,
Ei fæst þo Locus auðs hiá bil
Ansa vill Bothilda,
Farinn er Jocus, frygðar spil
Friófgast ei henni hiá;
Gudmundur Procus ástar il
Aptur því sløcqva má.

## Gáta.

Pryſættur Pilltur
Pryſinn og vandſtilltur
Leikur vid hendur
Þá lukkann áſtendur,
Fliódum lid færir
Fottrodinn ſamt hér;
Segdu hvør ſá er *)?

## Heſtakaupa Víſur **)

1 Þá grannar vorir hittaſt hér
Hvør þá ødrum bióda ſer
Heſta kaup og hroſsa;
Sumir hafa ſoddann art
Þeir ſelia ecki á medan ſpart
Kiaſsamál og koſsa.

*) Rockur.

**) Eignaz af nockrum Síra Biarna Giſsurſsyni.

2 "Sælir af hiarta!" heill ver þú!
Hvad hafid þér í fréttum nú?"
"Eckert ødru nýrra? —
Lítt́ú uppá hægri hlid,
Hér máttu nú bióda vid
Drøsulinn þinn hinn dýra."
3 "Er hann gamall?" ansar hinn,
"Atta vetra gódur minn!
Og lastalaus med øllu;
Hann ad stilla er hørkutak
Hierna er svipann, komdu á bak
Og veldu þér slétta vøllu."
4 "Horfdu á medan hvørnig fer —
Hvørgi geingur hann fyrir mér
Utann í taglid taki;" —
"Hægra nockud! hvad er um?
Han er tregur frá køplunum,
Flitt' þér og fardu af baki.
5 Þú átt ad locka hann, liúfurinn minn!
Og leida út yfir hladgardinn;
Talad' ecki um ad tarna! —
Siádu núna, svo fór skár
Slá þú hann ecki, þad er einn ár!
Svo fallega fór hann þarna!"
6 Enn þegar reidinn úti er
Aptur heim hann flýtir sér

"Hafid þér heidur bródir!
Lyndir nockud þessi þér,
Þá er hann líka falur af mér
Því vid erum vinir gódir."

7 "Vel fer ydur elskann mín!
Adur þecki eg godvild þín,
Býd eg þér minn besta!
Hann er úngur, feitur, frár
Frækinn, snotur, gildur, hár
Og hestval haldid mesta.

8 Hann er nú ecki heima hér
Hann heltist nockud fyrir mér
Af nagla, á næsta degi,
Þeir sem sídar sáu hann
Søgdu hann ordinn afhalltann;
Hann verdur á þínum vegi.

9 Þetta máttu, þessi er þinn!
Þar sem ad stendur taktu hinn!
Hann skal heimild bæta"
"Qvíd' eg fyrir ad beigia bak
Og bera leingi sødul-hrak
Ef verd eg mig ad væta.

10 Þó verdur þad ad vera svo,"
Hann víkur á stad, og kossa tvo
Leggur í vid hann lánga;
Skamt frá gardinum fákinn fann

Fárlegana vammhaltann
Sem giørdi hann eptir gánga.
11 Þegar hann haltann hestinn sér,
Í hliódi vid sig mæla fer:
"Odinn egi hann unna!
Hvørigur ockar hefur vel,
Hinn eg aldrei eptir tel
Lasta klárinn lúna.
12 Hann var latur, laungradur,
Lúrlegur og ramstadur,
Meiddur á midin baki;
Þessi er haltur, hriggbrotinn
Hvad gyldir? í annad sinn
Eg kémst úr hesta hraki!"
13 Brýnir hann sídann busann sin
Og borar í skakka hófinn inn
Heldur stóra holu;
Svartann leggur hann sødulinn á
Og sækir áfram mest sem má
Í nærri nordan-golu.
14 Hittir hann bæ og brátt þar ber,
Bóndinn sá sem fyrir er
Arkar út til gátta —
"Sigur-gésinn!" segir hinn;
Sæll vertú og velkominn,
Í nótt hiá oss ad nátta."

15 "Ydur þacka'g elsku vin!
Áfram leingra naudsyninn
Rekur mig ad rída,
Þó þad banni bagiun þinn
Jeg blódjárnadi klárinn minn,
Hér er holann sídann.

16 Ydur vil eg þann fyrstum fá
Fyrir þad honum hleckist á,
Því hér eru hestar feitir;
Hér finnst nú ecki annar eins
Ad afli, kostum, eda til neins
Enn þó ad leingra leiti.

17 Horfdu á hvørnin hann er fær,
Hrigguriun allur á honum rær,
Tarna er mikill macki!
Eg segi þér ecki af honum meir,
Yfir um klúngur, fen og leir
Rennur hann eins og rakki."

18 "Ecki líst mér á hann par,
Hann er svo skakkur í fæturnar;
Þó má þad svo vera,
Bleikalóttann býd eg þér vid,
Bæti eg so þinn rauna klid,
Sá mun bóndann bera!"

19 Þá var lidid lángt á nótt
Hann leggur á og qvedur skiótt

Og hýdir burt ur hladi —
Svo snoturt þarna fór hann fyrst,
A fáknum þýkir honum list
Allt út yfir tradir.
20 Enn þegar versnar vegurinn
Verda snøggleg umskiptinn,
Hann hnýs um hvørja þúfu;
"Stattú aldrei armur klár!"
Ansadi hinn og vard vid sár
Og grýtti hónum svo á grúfu.
21 "Séd hef eg aldrei soddann mann
Ad seldi hann mér náttblindann
Bøduls klárinn bleika!
Þetta skyldt fyrir skiædin er —
Hann skal þá aldrei trúa mér
Ef eg skal ei á hann leika!"

---

## Vísur ad vera í band.

1 Þessi idia áfram rann,
Endi er kominn á linda;
Letrinn bidia langs um hann:
Ad luckann stýdji eignar mann.

2 Ad vefa og kliá
Nú vík eg frá
Enn vil svo óskinn standi
Ad blessist sá
Sem bandid á,
Bædi á sió og landi.

---

# S t a k a.

Vandfarid er med vænann grip,
Votta eg þad med sanni;
Siduga konu, stálegt skip,
Og samvitskuna í manni.

---

## Um þann sem ecki nádi Hvalskurdinum ad Qvíká.

Einga finnur hann ána
Er þad mesta skrift!
Gierist þreitt hanns Grána

Enn grátinn audarnipt.
Utad Qvíká einn
Arkar þeigi seinn;
Vard honum ei, því vedrid brást,
Vegurinn þessi beinn;
Hallar háum degi,
Í hvalinn kémst hann eigi.

---

## Til dóttur sinnar Gudrúnar.

1 Gudrún dóttir, úng í árum,
Ástkiær mín! af huga klárum
Heilsan blíd med hønd og munni,
Hérnæst ósk, sem besta kunni,
Sendist þér og hindar-blíðd.
2 Fylgir qvedia frásøgn minni —
Fødur bædi og módur þinni,
Med þeim sjø systkinum þínum
Er sífeldt skémta augum mínum,
Lídur allt ad venju vel.
3 Þú ert ein af átta fjærri,
Ei ad líkhams vistum nærri,
Málæg þó í þeli og hjarta,
Þarf ej svo um fiarlægd qvarta;
Hugurin finnur hvørn dag þig.

4 Þó þig vanti í hópin heima
Hérfyri skal þér aldrej gleima,
Helldur árna alls hins góda,
Er það meiníng fyrstu lióda
Sem eg qved og sendi þér.
5 Bid eg mildan himna herra
Han hiálpi þér frá øllu verra,
Sendi næmi og skilníng skiæra
Skipan sína í verk ad færa,
Svo hulgi til hans þín æskuár.
6 Einnig gédiast mønnum mættir,
Miúklynd þeim í øllu sættir
Er þig giørá ad ydka og næra,
J því sem ad nema og læra
Hvøriu gódu barni ber.
7 Fylking engla fylgi á vegi
Føgur þér á nótt og degi,
Þann veg byriar þér ad gánga;
Því er mætti yfir hánga
Øllu geymi íllu frá!
8 Lifdu nú vel mitt barnid blída!
Bragin má eg ej leingur smída.
Full er meiníng fárra orda,
Fagra vid þig audnu skorda
Módur bæn og blessan mín!

## Sárt er meyar að missa.

1 Biört mey og hrein
Mér unni ein
A Isa köldu landi;
Sárt ber eg mein
Fyri silkirein
Sviptur því tryggda bandi.
2 Það edla fljóð
Geck aðra slóð,
Enn ætlad hafði eg leingi,
Dapraſt því hljóð
Enn dvínar blóð,
Dottið er fyrra geingi.
3 Stórt hrigdar kíf
Sem stáladríf,
Sturlar mig hvöriu sinni;
Það edla víf
Meðan endist líf
Ætíð er mér í minni.
4 Dimmt hrigdar jel
Mitt þvíngar þel,
Við þig að hlýt eg skilia;
Þó fái eg hel
Þá farðu vel!
Fagurleit hríngaþilia! —

## Gott og íllt, edur hugarhægd og óhægd.

1 Ei er andvakan góð;
Andvøku fylgir ángursværð,
Hún mædir menn og flióð;
Hugurinn hvarflar vída,
Af henni er traudla rótt um nótt
Lífinu safnar sóttum ódt
Set eg þad fyrst í óð.
2 Ord guds er eignin góð;
Ord guds er betra øllum aud
Þad frædir menn og flióð;
Sá þad í hiarta hyrdir
Hvíldfær um dag en rótt um nótt,
Þad sviptir lífid sóttum ódt
Enn sálina ángurs móð.
3 Ei er áhyggian góð;
Ahyggia offrekt vid audinn fest
Hún qvelur fyrda og flióð;
Hugurin hvarflar vída
Af henni er traudla rótt um nótt,
Lífinu safnar sóttum ódt,
Siái vid henni þióð!
4 Guds ótti er íþrótt góð
Og nægiast vel med allt sitt lán,
Þad audgar fyrda og flióð;

Sá a) þann plóg hædstan heldur
Hvíld fær um dag en rótt um nótt;
Þó sæki ad daudi og sóttir ódt
Þad sakar ei kristna þiód.
5 Ei er leynd ástinn góð;
Leynd ást sem náir njótast ei
Heitt brennir fyrda og flióð;
Hugurin hvarflar vída
Af henni er traudla rótt um nótt,
Lífinu safnar sóttum ódt,
Enn sálunni eykur móð.
6 Ást Krists er edla góð;
Ást Krists tók vora ønd ad sér,
Hún vard hans festar-flióð;
Hvør sem trú vid hann helldur
Hvíld fær um dag en rótt um nótt;
Þó svísi ad bøl og sóttir ódt
Hann sviptist hugarins móð.
7 Ej er ágyrndin góð;
Agyrnd til alls þess illa er rót,
Hún villir fyrda og flióð;
Hugurin hvarflar vída,
Af henni er traudla rótt um nótt,
Lífinu safnar sóttum ódt
Seint trúi eg hún verdi móð.

a) Einn plóg hædstum S.

8 Lamb guds oss lagdi slód;
Lamb guds oss baud þá gøtu ad gá
Þó gódsid kosti og blód;
Sá í trú henni helldur
Hvlld fær um dag en rótt um nótt,
Þó sæki ad daudi og sóttir ódt,
Það sigrar allt útfør góð.

---

## Prentvillur.

Bls. 1 L. 15 odd eyf l. odds ej
— 80 L 2 síua l. syna
— 115 L. 12 dyrar l. dyrdar
— 127 L. 12 rannir l. raunir

---

